# Almanak

fyrir árið

# 1905

sem er fyrsta ár eftir hlaupár og fimta ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.



**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira**

## ELLEFTA ÁR.

ÚTGEFANDI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.



WINNIPEG,
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS 1904

## Á þessu ári teljast liðin vera:

frá Krists fæðing........................ 1905 ár
frá sköpun veraldar...................... 5872 ár
frá upphafi Íslandsbygðar................ 1031 ár
frá siðabót Lúters....................... 388 ár

---

Árið 1905 er sunnudagsbókstafur: A.
Gyllinital: 6.

---

Milli jóla og langaföstu eru 10 vikur.

---

## Myrkvar árið 1905:

Á árinu 1905 verða 4 myrkvar, tveir á sólu og tveir á tungli.—1. Tunglmyrkvi 19. Febr., ósýnilegur hér í álfu. 2. Sólmyrkvi 5. Marz, ekki sýnilegur hér.—3. Tunglmyrkvi 14. Ágúst, sýnilegur hér í álfu skömmu fyrir miðnætti. —4. Sólmyrkvi 30. Ágúst, sýnilegur hér að morgni.

---

Í almanaki þessu er hver dagur talinn frá miðnætti til miðnættis, svo að þær 12 kl.stundir, sem eru frá miðnætti til hádegis eru taldar „fyrir miðdag" (f. m.), en hinar 12 frá hádegi til miðnættis taldar „eftir miðdag" (e. m.).

---

## Pláneturnar 1905:

VENUS er kvöldstjarna til 27. Apríl, eftir það morgunstjarna.

MARS er morgunstjarna til 8. Maí, eftir það kvöldstjarna.

JÚPÍTER er kvöldstjarna til 4. Maí, morgunstjarna til 24. Nóvember, og eftir það kvöldstjarna.

SATÚRNUS er kvöldstjarna til 12. Febrúar, þá morgunstjarna til 23. Ágúst og eftir það kvöldstjarna.

---

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þverm á þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vor r 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður, er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

---

## Páskadagur:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1905 | 23. Apríl | 1909 | 11. Mars |
| 1906 | 15. Apríl | 1910 | 27. Mars |
| 1907 | 31. Mars | 1911 | 16. Apríl |
| 1908 | 19. Apríl | 1912 | 29. Mars |

---

## Snjólínan.

Eftirfylgjandi skýrsla sýnir á hvaða hæð fyrir ofan sjáfarmál að regn breytist í snjó, er það fellur á jörðina, á öllum tímum árs, á hverjum 10 norðurbreiddarstigum frá miðjarðarlínu að telja:

| N. breiddarstig. | Fet yfir sjáfarmál. |
|---|---|
| 0 | 15,260 |
| 10 | 14,764 |
| 20 | 13,478 |
| 30 | 11,484 |
| 40 | 9,000 |
| 50 | 6,334 |
| 60 | 3,818 |
| 70 | 1,270 |

---

### Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | Fyrir Kr. |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1183 |
| Stofnun Kartagoborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |

| | |
|---|---|
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Kr. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bard. viðHastings | 1066 |
| Krossferðirnar byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Gibraltar tekinn af Bretum | 1704 |
| Friðarsamningarnir í Utrecht | 1713 |
| Canada tekin af Frökkum | 1759 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda stofn. í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Gullið fundið í Ástralíu | 1851 |
| Fyrsta alheims sýning í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnað | 1876 |

---

## Til minnis.

Til eru, að sögn, 2750 tungumál.
Fyrsta úr var smíðað 1476.
Fyrstu nálar búnar til um 1545.
Fyrstu hjólvagnar á Frakklandi 1559.
Fyrsta fréttablað á Englandi gefið út 1588.
Fyrsta blaðaauglýsing birtist 1652.
Fyrsti sjónauki gerður 1590.

Fyrsta gufuvél hér í álfu (frá Engl.) 1753.
Fyrst gerðar eldspítur 1829.
Fyrstu umslög hagnýtt 1829.
Fyrstu stálpennar búnir til 1830.
Steinolía fyrst höfð til ljósa 1826.
Fyrsta gufuskip úr járni bygt 1830.
Glergluggar fyrst í húsum á Engl. á 18. öld.
Elías Howe, yngri, fær einkaleyfi fyrir hinni fyrstu fullkomnu saumavél 1846.

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði, Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.
Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklu-gos, er sögur fara af, 1104.
Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (kon. Norðmanna-) 1262—63.
Svarti dauði geysaði 1402.
Seinni plágan 1495.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.

Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.

Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi biskupi, 1584.

Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.

Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).

Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.

Stórabóla geysaði 1707.

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.

Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.

Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.

Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.

Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.

Stofnað bókasafn og lestrarfélag á Suðurlandi (í Reykjavík) 1790.

Stofnað „Hið norðlenzka bóklestrarfélag“ 1791.

Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1798.

Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.

Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.

Fyrsta organ, sett í Leirárkirkju, 1800.

Landið gert að biskupsumdæmi 1801.

Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.

Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.

Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.

Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.

Hið íslenzka bókmentafélag stofnað 1816.

Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn, kemur út 1818 (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808.

Prentsmðjan flutt frá Leirárg. til Viðeyjar 1819.

Hið norræna fornfræðafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1825.

Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.

Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.

Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.

Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.

Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.

Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.

Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.

smiðja sett á stofn á Akureyri 1852.

Verslunin gefin laus öllum þjóðum 1854.

Fyrsta gufuskip (enskt) kom til Akureyrar 1857.

Fyrsta póst-gufuskip kom til Reykjavíkur 1858.

Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.

Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.

Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.

Þjóðvinafélagið stofnað 1870.

Fyrst fluttir inn skotskir ljáir 1871.

# Janúar hefir 31 dag 1905.

MÖRSUGUR

*Umskurn Krists, Lúk. 2.*

S 1 Nýársdagur
M 2 Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1863.
Þ 3
M 4 Konráð Gíslason d. 1891
F 5 Nýtt tungl (jólatungl) 11. 17 e.m.
F 6 Þrettándi (Epiphania)
L 7 Knútsdagur. Eldbjargarmessa.—12. v. vetrar.

*Þegar Jesús var tólf ára. Lúk. 2.*

S 8 1. s. e. þrett.— Bardag. við New Orleans 1815
M 9 Napoleon 3. d. 1876
Þ 10
M 11
F 12 Geisladagur.—Alfr. Tennyson f. 1810
F 13 Fyrsta kv. 3.11 e. m
L 14 13. v. vetrar

*Brúðkaupið í Kana. Jóh. 2.*

S 15 2. s. e. þrett.—Sandvíkur eyjar fundnar 1778
M 16 British Museum opnað 1759
Þ 17 Benjamín Franklin fæddur 1706
M 18 Bulwer Lytton, skáld d. 1873—Webster f. 1782
F 19 Fyrst fundið gull í California 1849
F 20 Bræðramessa. Miður vetur. ÞORRI
L 21 Fullt t. 0.14 f.m—Agnesarmessa, —14. v. v.

*Jesús gekk ofan af fjallinu. Matt. 8.*

S 22 3. s. e. þrett.—Victoria drottning d. 1901.—
M 23 Gustav Doré d. 1882. [Byron f. 1788
Þ 24 Friðrik mikli f. 1712
M 25 Pálsmessa.—Kirkjufélag Ísl. í Vesturh. stofn.
F 26 [1885
F 27 Sið. kv. 5.20 e. m.—Mozart f. 1757
L 28 Paris gafst upp fyr. Þjoðv. 1871. Holberg d. 1754
[15 v. vetrar

*Jesús gekk á skip. Matt. 8.*

S 29 4. s. e. þrett.—McKinley forseti f. 1843
M 30
Þ 31 Dr. Guðbrandur Vigfússon d. 1889

## Febrúar hefir 28 daga 1905

| | | þORRI |
|---|---|---|
| M | 1 | |
| F | 2 | Kyndilmessa — Baldvin Einarsson lögfr. f. 1802 |
| F | 3 | Blasíusmessa |
| L | 4 | Nýtt tungl (þorrat,) 4.06 f.m. 16. v. vetrar |
| | | *Illgresi meðal hveitisins. Matt. 13.* |
| S | 5 | 5. s. e. þrett. |
| M | 6 | Sir Henry Irving fæddur 1838 |
| Þ | 7 | Charles Dickens f. 1812 |
| M | 8 | Stríðið milli Rússa og Japan byrjaði 1904 |
| F | 9 | Baldvin Einarsson, lögfr. d. 1833 |
| F | 10 | Canada látin af hendi við England 1763 |
| L | 11 | Thomas Edison f, 1847 17. v. vetrar |
| | | *Krists dýrð. Matt. 17.* |
| S | 12 | 6. s. e. þrett.— F. kv. 9.20 f.m. – Lincoln f. 1809 |
| M | 13 | Richard Wagner, tónfræðingur d. 1883 |
| Þ | 14 | Lúters síðasta prédikan 1546 |
| M | 15 | Jón Thorsteinsen, landlæknir d. 1855 |
| F | 16 | Melankton f. 1497 |
| F | 17 | Michael Angelo d 1563 |
| L | 18 | ÞORRAÞRÆLL—Mart. Lúter d. 1546.— 18. v. vetrar |
| | | *Verkamenn í víngarði. Matt. 20.* |
| S | 19 | Níuvikna fasta— Fult t. 11.52 e.m.— GÓA |
| M | 20 | |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | Pétursmessa—George Washington f. 1732 |
| F | 23 | |
| F | 24 | Mattíasmessa—Ingeman, danska skáldið d. 1862 |
| L | 25 | 19. v. vetrar |
| | | *Fernskonar sáðjörð. Lúk. 8.* |
| S | 26 | 2. s. í niuv. föstu.— Síð. kv. 3.04 f.m. |
| M | 27 | Longfellow f. 1807 |
| Þ | 28 | |

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | |
| F | 2 | Fyrsta þing Bandaríkjanna sett 1781 |
| F | 3 | Jónsmessa [h. f.] |
| L | 4 | 20. v. vetrar |

*Skírn Krists. Matt. 3.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | Langafasta (sjöv. f.)—N. t. 10. 19 e. m. (Góut.) |
| M | 6 | Svbj. Egilsson f. 1791 |
| Þ | 7 | Sprengikvöld |
| M | 8 | Öskudagur—Jón Thóroddsen d. 1868 |
| F | 9 | 40 riddarar—Merrimac og Monitor bardag. 1862 |
| F | 10 | Edward VII. kóngur giftist 1863 |
| L | 11 | 21. v. vetrar |

*Djöfullinn freistar Jesú. Matt. 4.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 1. s. í föstu—Séra Páll Þorláksson d. 1882 |
| M | 13 | Dr. Guðbrandur Vígfússon f. 1827 |
| Þ | 14 | Fyrsta kv. 2.00 f. m.—Sig. Breiðfjörð f. 1778 |
| M | 15 | Fyrsta þing Manitoba fylkis sett 1871 |
| F | 16 | Gvöndardagur.—Guðm. hinn góði, Hólabiskup |
| F | 17 | Björn Gunnlögss. d. 1876. M. Stephenss. d. 1833 |
| L | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 22 v. vetrar |

*Kanverska konan. Matt. 15.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 2. s. í föstu—Davíð Livingstone f. 1813 |
| M | 20 | F. t. 9. 56 e. m. — GÓUÞRÆLL — EINMÁNUÐUR |
| Þ | 21 | Benediktsmessa—Jafndægur—Vor byrjar |
| M | 22 | Goethe d. 1832 |
| F | 23 | Riels uppreistin í Vestur-Canada hófst 1885 |
| F | 24 | Longfellow d. 1882 |
| L | 25 | Boðunardagur Maríu.—Konudagurinn.—23. v. v. |

*Jesús rak út djöful. Lúk. 11*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 3. s. í föstu—Beethoven, tónfræðíngur d. 1827 |
| M | 27 | Síð. kv. 2. 35 e. m. — John Bright d. 1889 |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | Swedenborg d. 1772. Jón Eiríksson, konf. d. 1787 |
| F | 30 | |
| F | 31 | Bjarni Thorarensen, amtmaður f. 1781 |

# Apríl hefir 30 daga 1905

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | EINMÁNUÐUR |
| L | 1 | Bismarck f. 1815 | 24 v. vetrar |
| | | *Jesús mettar 5000 manna. Jóh. 6.* | |
| S | 2 | Miðfasta--Emil Zola f. 1840 | |
| M | 3 | Washington Irving f. 1783 | |
| Þ | 4 | Nýtt t. 4.23 e.m. Oliver Goldsmith d. 1774 | |
| M | 5 | | |
| F | 6 | Canada fundin 1497 | |
| F | 7 | Channing f. 1780 | |
| L | 8 | Kristján IX f. 1818 | 25 v. vetrar |
| | | *Gabriel engill sendur Lúk, 1.* | |
| S | 9 | 5. s. í föstu | |
| M | 10 | | |
| Þ | 11 | Leónisdagur | |
| M | 12 | Fyrsta kv. 2.41 f.m.—Henry Clay f. 1777 | |
| F | 13 | Thomas Jefferson, forseti Bandar. f. 1743 | |
| F | 14 | Abraham Lincoln skotinn 1865 | |
| L | 15 | Shakespeare f. 1564 Sumarmál [af 26. v. vetr.] | |
| | | *Krists innreið í Jerusalem. Matt. 21.* | |
| S | 16 | Pálmasunnudagur—Dymbilvika | |
| M | 17 | Magnusmessa [Eyjajarls] h. f. Ben Fran | |
| Þ | 18 | [dáinn 1790 | |
| M | 19 | Fullt tungl 6.38 f. m, Melankton d. 1560 | |
| F | 20 | Skírdag.—Sumardag. fyrsti. 1. v. sum. | HARPA |
| F | 21 | Föstudagurinn langi—J. Hjaltalín landl f. 1807 | |
| L | 22 | | |
| | | *Krists upprisa. Mark. 16.* | |
| S | 23 | Páskadagur—Jónsmessa [Hólab.] h. s. Shake- | |
| M | 24 | Annar í pásk.-Dan Defoe d 1731 [speare d 1616 | |
| Þ | 25 | Gangdagurinn eini [mikli]. — Cromwell f. 1599 | |
| M | 26 | Sið. kv. 4.14 f.m.—Moltke hershöfð. d. 1891 | |
| F | 27 | U. S. Grant, hershöfðingi f 1822 —2 v. sumars | |
| F | 28 | | |
| L | 29 | | |
| | | *Jesús kom að læstum dyrum. Jóh 20.* | |
| S | 30 | 1 s. e. páska | |

HARPA

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Tveggjapostula messa–Dav. Livingstone d 1873 |
| Þ | 2 | Dewey admíráll eyðil. Spanska flot. við Manilla |
| M | 3 | Krossm að vori. Columbus fann Jamica 1494[1898 |
| F | 4 | Nýtt tungl 8.50 f.m, 3. v. sumars |
| F | 5 | Napóleon Bonaparte d. 1821 |
| L | 6 | |

*Jesús er góði hirðirinn Jóh. 10*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 2 s e páska |
| M | 8 | John Stewart Mill d 1873 |
| Þ | 9 | Shiller d 1805 |
| M | 10 | |
| F | 11 | Fyrsta kv. 12,46 f. m. 4. v sumars |
| F | 12 | Bjarni Pálsson, fyrsti landl. f 1719 |
| L | 13 | Stofnuð fyrsta ensk nýlenda í Ameríku við [Jamestown 1 |

*Burtför Krists til foðursins Jóh. 16*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 3 s e páska |
| M | 15 | Hallvarðsmessa-Pétur biskup Pétursson d 1891 |
| Þ | 16 | |
| M | 17 | Tómas Sæmundssòn d. 1841 |
| F | 18 | Rússakeisari f. 1868. 5. v sum |
| F | 19 | F. t. 3.36 e.m.—Gladstone d 1898 |
| L | 20 | Columbus d 1506 SKERPLA |

*Sending heilags anda Jóh. 16*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 4 s e páska |
| M | 22 | Sæmundur fróði d 1133 |
| Þ | 23 | |
| M | 24 | Victoria drottning fædd 1819 |
| F | 25 | Síð kv. 7.50 e m.—Úrbaníusmessa. 6 v sum. |
| F | 26 | Jónas Hallgrímsson dáinn 1845 |
| L | 27 | Calvin dáinu 1564 |

*Biðjið í Jesú nafni Jóh. 16*

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 5 s e páska. Gangdaga vika |
| M | 29 | Gísli Brynjólfsson dáinn 1888 |
| Þ | 30 | Eggert Olafsson dáinn 1768 |
| M | 31 | Jón Guðmundsson, ritstjóri „Þjóðólfs" d. 1876 |



# ENGAR KVALIR NÉ SÁRINDI LENGUR

**Læknast al með**

# 7 Monks' Oil

Þetta ágæta meðal á engan sinn líka á jarðríki, í því að lækna allskonar kvalir og sárindi. Það er brúkað bæði innvortis og útvortis og reynist ætíð vel. Við ráðleggjum það við eftirtöldum sjúkdómum:

Kvefi og hósta, sting í baki, sting undir síðunni, sinadrætti, þela fyrir brjósti, sprungum á höndum, kýlum, stungusárum, sárum á fótum, kuldabólgu, bólum á hörundi, máttleysi í mjóhryggnum, flugnabiti, hringormi, mænuverk, kláða á fótum, gömlum sárum, gigt, brjósthimnubólgu, krabbameini, heimakomu, bruna, útslætti, gylliniæð, krampa, kóleru, niðurgangi, skurðaríárum, sinatogi, magaveiki, kvefi, sóttveiki, stiroum liðamótum, tannverk, hettusótt, influensu, sárindum fyrir brjósti, andþrengslum, eyrnaverk, sárindum í hálsi, brunasløðrum, fleiðrum, bólguþrota, vöðvagigt, kvefþyngslum í höfði, magaverk, sárum á tannholdinu, kíghósta, hæsi, sárum liðamótum, bólgu, höfuðverk, æðahnútum, lendagigt, bakþrautum og allskonar kvölum og sárindum innvortis og útvortis.

Allur sársauki er óþægilegur; engin þörf er á að finna til sársauka, þar eð

**7 MONKS OIL**

læknar öll sárindi.

*Hún er ágæt, nuddið henni vel inn í hörundið. Hún linar kvalirnar jafnskjótt. Reynið hana. Það mun vel gefast. Hún mýkir, bætir, græðir. Hún er besti „læknir" sem hægt er að hafa.*

**7 MONKS OIL. VERD 25 CENTS.**

Seld í öllum lyfjabúðum.

---

7 Monks Company, Einka eigendur.

BOX 742 - - WINNIPEG CAN.

# Júní hefir 30 daga 1905

SKERPLA

F 1 Uppstigníngardagur 7. v sumars
F 2 ◉Nýtt tungl 10.59 e.m.—Garibaldi dáinn 1882
L 3

*Þegar huggarinn kemur Jóh. 15*

S 4 6 s e páska
M 5
Þ 6 Alexander mikli fæddur 356 f Kr.
M 7 Séra Tómas Sæmundsson fæddur 1807
F 8 Jón Hjaltalín landlæknir d. 1882 — 8.v.sumars
F 9 Charles Dickens dáinn 1870
L 10 ☾Fyrsta kv. 6.05 f. m.

*Sá, sem elskar mig Jóh. 14*

S 11 Hvítasunnudagur—Helgavika
M 12 W. C. Bryant dáinn 1878
Þ 13 Jón Sveinsson, landlæknir dáinn 1803
M 14 Sig. Melsted lector, dáinn 1897
F 15 John, Englands kóngur, undirskrií. *Magna Carta*
F 16 ○Fullt tungl 10.52 e.m. [1215. — 9.v.sum.
L 17 Jón Sigurðsson fæddur 1811

*Kristnr og Nikódemus Jóh. 3*

S 18 Trinitatis--Þrenningarhátíð SÓLMÁNUÐUR
M 19
Þ 20
M 21 Kristján Jónsson, skáld fæddur 1842
F 22 Dýridagur. Sólstöður lengstur dag. 10.v sumars
F 23
L 24 ☽Síð. kv. 12 46 e. m. — Jónsmessa.— Kristni (lögt á Ísl. 1000

*Hinn auðugi maður Lák 16*

S 25 1. s. Trínitatis—Ágsborgar játningin 1530
M 26
Þ 27
M 28 Victoria drottning krýnd 1838
F 29 Pétursmessa og Páls 11. v sumars
F 30

SÓLMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| L | 1 | Dominion dagur [1867] |
| | | *Hin mikla kvöldmáltíð Lúk. 14* |
| S | 2 | 2. s e Trínitatis—Nýtt túngl 10.50 f.m. |
| M | 3 | Quebec borg grundvölluð 1605(Þíngmaríumessa |
| Þ | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) |
| M | 5 | |
| F | 6 | 12 v sumars |
| F | 7 | Jóhann Huss brendur 1415 |
| L | 8 | Seljumannamessa |
| | | *Hinn týndi sauður Lúk. 15* |
| S | 9 | 3. s e Trínitatis—Fyrsta kv. 10.46 f.m. |
| M | 10 | John Calvin fæddur 1509 |
| Þ | 11 | |
| M | 12 | |
| F | 13 | Margrétarmessa 13 v sumars |
| F | 14 | Franska stjórnarbyltíngin 1789 |
| L | 15 | Sviðhúnsmessa |
| | | *Verið miskuunsamir Lúk 6.* |
| S | 16 | 4. s e Trínitatis—Fullt tungl 8.32 f.m. |
| M | 17 | |
| Þ | 18 | |
| M | 19 | Aukanætur—Guðbrandur biskup dáinn 1627 |
| F | 20 | Þorláksmessa á sumri 14 v. sumars |
| F | 21 | Fyrsta járnbraut fullgerð í Canada 1836 |
| L | 22 | Garibaldi fæddur 1807 |
| | | *Jesús kennir af skipi Lúk. 5* |
| S | 23 | 5. s e Trínitatis—Hundad. byrja—Miðsumar |
| M | 24 | S. kv. 6.09 f.m. Canada fundin [HEYANNIR |
| Þ | 25 | Jakobsmessa [1554 |
| M | 26 | Franska stjórnarbyltíngin 1830 |
| F | 27 | Atlantshafs ritsíminn fullgerður 1866 15 v sum. |
| F | 28 | |
| L | 29 | Ólafsmessa (h. f.) |
| | | *Réttlæti Faríseanna Matt. 5* |
| S | 30 | 6. s e Trínitatis—William Penn d 1718 |
| M | 31 | N. t. 11.03 e.m.--Jón Ericson (sænski) f. 1803 |

# Agúst hefir 31 dag 1905

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| Þ | 1 | Bandadagur---Jón Espólín dáinn 1839 | |
| M | 2 | Benedikt Sveinsson, sýslumaður dáinn 1899 | |
| F | 3 | Ólafsmessa (h. s.) | 16. v sumars |
| F | 4 | Hannes Finnsson d 1796–H. C. Anderson d 1875 | |
| L | 5 | Byrjað að leggja fyrsta Atlantshafs ritsímann [1858 | |
| | | *Jesús mettar 4000 manns Mark. 8* | |
| S | 6 | 7 s e Trínitatis | |
| M | 7 | ☾ Fyrsta kv. 3.17 e.m. | |
| Þ | 8 | Canning dáinn 1827 | |
| M | 9 | | |
| F | 10 | Lafránsmessa | 17. v sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | Sir Wilfrid Laurier heimsótti páfann 1897 | |
| | | *Um fals spámenn Matt. 7* | |
| S | 13 | 8 s e Trínítatis—Manilla borg gafst upp 1898 | |
| M | 14 | ☺ Fullt tungl 8.31 e.m.—Napoleon 1. fæddur | |
| Þ | 15 | Maríumessa (h. f.) [1769 | |
| M | 16 | | |
| F | 17 | Sveinbjörn Egilsson dáinn 1852 | 18. v sumars |
| F | 18 | Austurríkis keisari fæddur 1830 | |
| L | 19 | Gestur Pálsson dáinn 1892 | |
| | | *Hinn rangláti ráðsmaður Lúk. 16* | |
| S | 20 | 9 s e Trínitatis | |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | ☽ Síð kv. 9.10 e. m. | TVÍMÁNUÐUR |
| M | 23 | Hundadagar enda | |
| F | 24 | Bjarni Thorarensen dáinn 1841 | 19. v sumars |
| F | 25 | | |
| L | 26 | Þórður Jónsson, há-yfirdómari dáinn 1880 | |
| | | *Jesús grætur yfir Jerúsalem Lúk. 19* | |
| S | 27 | 10 s e Trínitatis—Ágústín dáinn 430 | |
| M | 28 | Leó Tolstoi fæddur 1828. Goethe fæddur 1749 | |
| Þ | 29 | Höfuðdagur---Jóhannes skírari líflátinn | |
| M | 30 | ● Nýtt t. 6.13 f.m. — Jón bisk. Vídalín d. 1720 | |
| F | 31 | John Bunyan dáinn 1688 | 20. v sumars |

## Hið nafnfræga meðal við



# GYLLINIÆÐ

Ein ágætasta tegundin af 7 Monks, er töframeðalið gegn gylliniæða þrautum, kallað

# 7 MONKS MIRACLE SALVE

Þetta meðal hefir á undraverðan hátt læknað gylliniæð, gömul sár, hörundskvilla, kýli, skurði, bruna, útbrot, kuldabólgu, kláða, hringorm, reform o. s. frv.—Það er sannarlegt töfrasmyrsli, og ætti að vera á hverju einasta heimili.

## 7 Monks Miracle Salve

—— Verð 50 cents. Selt hjá öllum lyfsölum. ——

*7 MONKS COMPANY, Einka eigendur, Box 742, WINNIPEG, CAN.*

---

## Til Kvenfólksins




Vér viljum leiða athygli yðar að ágætu meðali, mýkjandi, bætandi allskonar bólgu, útbrot og sár.

# 7 MONKS' SANOGEN

Þetta meðal er áreiðanlegt við hvítum klæðaföllum. Það er útvortis meðal, leyst upp í heitu vatni, og á engan sinn líka í að lækna, bólgu, sár og of mikla blóðsókn. Það er áreiðanlegt við kláða og bólguþrota.

## 7 MONKS' SANOGEN.

**VERÐ 50 cts.**

Selt hjá öllum lyfsölum.

——————

7Monks Company, Einka eigendur, Box 742, Winnipeg, Can.

TVÍMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | |
| L | 2 | Grundtvig dáinn 1872 |
| | | *Faríseinn og tollheimtumaðurinn Lúk. 18* |
| S | 3 | 11. s e Trínitatis |
| M | 4 | Franska líðveldið stofnað 1870—Verkamanna- |
| Þ | 5 | Fyrsta kv. 9.09 e. m. [dagur í Canada |
| M | 6 | McKinley forseti skotinn í Buffalo 1901 |
| F | 7 | 21 v sumars |
| F | 8 | Maríumessa (h. s.)—Jerúsalem hertekin árið 70 |
| L | 9 | |
| | | *Daufi og málhalti maðurinn Mark. 7* |
| S | 10 | 12. s e Trínitatis |
| M | 11 | |
| Þ | 12 | Bardaginn við Quebec og fall Wolfe, hershöfð. |
| M | 13 | F.t. 11.10f.m. Bretar taka Quebec 1759 |
| F | 14 | Wellington hershöfðingi d. 1852. 22 v sumars |
| F | 15 | |
| L | 16 | Moscow borg brend 1812 |
| | | *Hinn miskunnsami Samverji Lúk 10.* |
| S | 17 | 13. s e Trínitatis |
| M | 18 | Garfield forseti Bandar. dáinn 1881 |
| Þ | 18 | |
| M | 20 | Imbrudagar (sæluvika) |
| F | 21 | Síð. kv. 5.14 e.m. 23 v sum. HAUSTMÁNUÐUR |
| F | 22 | Tyrkja Soldán fæddur 1842 |
| L | 23 | Snorri Sturluson d 1241. Jafndægur-haust byrjar |
| | | *Tíu líkþráir Lúk. 17* |
| S | 24 | 14. s e Trínitatis |
| M | 25 | Björn Gunnlaugson fæddur 1788 |
| Þ | 26 | |
| M | 27 | Fyrsta járnbraut fullgerð á Englandi 1825 |
| F | 28 | Nýtt tungl 3,00 e. m. 24 v sumars |
| F | 29 | Mikaelsmessa |
| L | 30 | |

# Október hefir 31 dag 1905

*Enginn kann tveimur herrum að þjóna Matt. 6*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 15 s e Trínitatis | HAUSTMÁNUÐUR |
| M | 2 | Fyrsta járnbraut fullgjörð í Bandaríkjunum 1833 | |
| Þ | 3 | Pétur biskup Pétursson fæddar 1808 | |
| M | 4 | Francois Guirot, sagnfræðíngur fæddur 1787 | |
| F | 5 | ☾Fyrsta kv. 5.04 f. m. | 25 v sumars |
| F | 6 | Eldadagur—Tennyson dáinn 1892 | |
| L | 7 | Edgar A Poe dáinn 1849 | |

*Sonur ekhjunnar í Nain Lúk. 7*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 16 s e Trínitatis | |
| M | 9 | Chicago bruninn mikli 1871 | |
| Þ | 10 | Kruger (fyrv. forseti í Transval) fæddur 1825 | |
| M | 11 | Búarnir sögðu Bretum stríð 1899 | |
| F | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | 26 v sumars |
| F | 13 | ☺Fullt tungl 4.03 f. m. | |
| L | 14 | Kalixtusmessa | |

*Vatnsjúki maðurinn Lúk. 14*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 17 s e Trín. — Gregoríska tímatalið innleitt 1582 | |
| M | 16 | | |
| Þ | 17 | | |
| M | 18 | Lúkasmessa | |
| F | 19 | Jónatan Swift d. 1745–Veturnætur-27 v sumars | |
| F | 20 | Séra Jón Þorláksson dáinn 1819 | |
| L | 21 | ☽Síð. kv. 5.51 f.m. Vetrard. fyrsti. | 1. v. vetrar |
| | | | GORMÁNUÐUR |

*Hvers son er Kristur? Matt. 22*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 18 s e Trínitatis—Jón Espólín fæddur 1769 | |
| M | 23 | William Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| Þ | 24 | | |
| M | 25 | | |
| F | 26 | Moltke hershöfðíngi, fæddur 1800 | |
| F | 27 | Hallgrímur Pétursson dáinn 1674 | |
| L | 28 | ☺Nýtt t. (vetrar tungl) 11.58 e.m. | 2. v. vetrar |

*Limafallssjúki maðurinn Matt. 9*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 19 s e Trínitatis | |
| M | 30 | Gambetta (franski stjórnmálam.) fæddur 1832 | |
| Þ | 31 | Reformazíón Lúters 1517 | |

## Nóvember hefir 30 daga 1905

GORMÁNUÐUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Allra heilagra messa |
| F | 2 | Allra sálna messa—Jenny Lind dáin 1887 |
| F | 3 | ☾Fyrsta kv. 6.39 e. m. |
| L | 4 | 3 v vetrar |

*Jesús prédikar um sælu Matt. 5*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 20, s e Trínitatis |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | Jón Arason, biskup höggvinn 1550 |
| M | 8 | Milton dáinn 1674 |
| F | 9 | Afmælisdagur Edwards Breta konungs |
| F | 10 | Lúter fæddur 1483—Oliver Goldsmith f. 1728 |
| L | 11 | ☺Fullt tungl 10.09 e.m.—Marteinsmessa 4. v. vetrar |

*Konungsmaðurinn Jóh. 4*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 21. s e Trínitatis |
| M | 13 | |
| Þ | 14 | Rasmuss Kristján Rask dáinn 1832 |
| M | 15 | |
| F | 16 | Jónas Hallgrímsson fæddur 1807 |
| F | 17 | Suez skurðurinn opnaður 1869 |
| L | 18 | 5 v vetrar |

*Hinn skuldugi þjónn Matt. 18*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 22. s e Trínitatis—☽Síð kv. 6.34 e.m |
| M | 20 | Sir Wilfried Laurier fæddur 1841 ÝLIR |
| Þ | 21 | Maríumessa |
| M | 22 | Cecelíumessa |
| F | 23 | Klemensmessa |
| F | 24 | |
| L | 25 | Katrínarmessa 6 v vetrar |

*Skattpeningurinn Matt. 22*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 23. s e Trínitatis — ●Nýtt tungl 9.47 f.m. |
| M | 27 | Dumas, yngri d. 1895—Grím, Thomsen d. 1896 |
| Þ | 28 | Washington Irving dáinn 1850 |
| M | 29 | |
| F | 30 | |

# Desember hefir 31 dag 1905

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | ÝLIR |
| F | 1 | Eggert Olafsson fæddur 1726 | |
| L | 2 | Bardaginn við Austerlitz 1805 | 7. v vetrar |
| | | *Krists innreið í Jerúsalem Matt. 21* | |
| S | 3 | 1 s. í jólaföstu—☾Fyrsta kv. 11.45 f. m. | |
| M | 4 | | |
| Þ | 5 | Mozart dáinn 1791 | |
| M | 6 | | |
| F | 7 | Jón Sigurðsson dáinn 1879 | |
| F | 8 | Maríumessa | |
| L | 9 | John Milton fæddur 1608 | 8. v vetrar |
| | | *Teikn á sól, tungli og stjörnum Lúk 21* | |
| S | 10 | 2 s. í jólaföstu—Alexander Dumas eldri d. 1870 | |
| M | 11 | ☺Fullt tungl 4.26 e. m. | |
| Þ | 12 | Skúli Magnússon, landfógeti fæddur 1711 | |
| M | 13 | Lucíumessa—Séra Jón Þorláksson fæddur 1741 | |
| F | 14 | George Washington dáinn 1799 | |
| F | 15 | | |
| L | 16 | New York bruninn mikli 1835 | 9. v vetrar |
| | | *Johannes í böndum Matt. 11* | |
| S | 17 | 3 s. í jólaföstu | |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | ☽Síð. kv. 5.09 f. m. | |
| M | 20 | Imbrudagar (sæluvika) | MÖRSUGUR |
| F | 21 | Tómasmessa | |
| F | 22 | Sólhvörf : skemstur dagur | |
| L | 23 | Þorlaksmessa | 10. v. vetrar |
| | | *Vitnisburðnr Jóhannesar skírara Jóh, 1* | |
| S | 24 | 4. s. í jólaföstu. Aðfangadagur jóla. Jólanótt [nóttin helga | |
| M | 25 | Jóladagur—●N. t. 1.04 e.m. | |
| Þ | 26 | Annar í jólum | |
| M | 27 | Magnús Stephensen, konferensráð f. 1763 | |
| F | 28 | | |
| F | 29 | Gladstone fæddur 1809 | |
| L | 30 | Bjarni Thorarensen f. 1786 | 11. v. vetrar |
| | | *Símon og Anna Lúk. 2* | |
| S | 31 | S. milli jóla og nýárs—Gamlársdagur | |



*Útilegumaðurinn.*

Myndastytta eftir Einar Jónsson frá Galtafelli

# ALMANAK.

ÚTGEFANDI
ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.

11. ÁR. WINNIPEG. CANADA. 1905.

## SIR WILFRID LAURIER.


SIR WILFRID LAURIER.

Einn hinna merkustu stjórnmálamanna, sem nú eru uppi í heiminum, er forsætisráðherra Kanadaveldis, *Sir Wilfrid Laurier.* Hvarvetna um hinn brezka heim dást menn að honum fyrir ágæta leiðtogahæfileika, sjaldgæfa mælsku, — mikil hyggindi og færsæl í stjórnmálum. Sigurinn, sem hann vann nú við síðustu kosningar, sýnir það líka, að Kanadamenn kunna að meta kosti hans og hæfileika. Enda verður

hann einn hinna merkustu manna í sögu landsins, þegar alt er til greina tekið. Hann er eiginlega nú sem stendur æðsti maðurinn í landinu, átrúnaðargoð allra Kanadamanna,— sá maðurinn, sem þeir dást mest að og bera mesta lotningu fyrir — alveg á sama hátt og Sir John Macdonald var það á sínum tíma.

Hann er fæddur í borginni Quebec 20. nóv. 1841 af frakkneskum foreldrum. Faðir hans var landmælingamaður og fastur í lund. Forfeður hans voru ýmist kunnir að ágætum hæfileikum í reikningsáttina eða í áttina til fagurra lista. Hvorirtveggja hfileikarnir koma fram í fagurri einingu hjá Laurier, þar sem hann er fyrirtaks hagsýnn stjórnmálamaður og snildar ræðuskörungur.

Hann aflaði sér ungur vanalegrar skólamentunar, útskrifaðist af lærða skólanum í þorpinu *L'Assomption*, þar sem hann var alinn upp, tók síðan að lesa lög við McGill háskólann og fekk þar fljótt það orð, að taka þar öllum lögfræðisnemendum fram að ljómandi gáfum. Einkum komu ræðumanns hæfileikarnir fljótt í ljós í námsmanna félagsskapnum við háskólann. En þótt hann væri öllum fremri, veittu menn því þegar eftirtekt, að hann átti aldrei neina óvini né öfundarmenn, heldur ávann sér aðdáun og kærleika þeirra, er hann umgekst.

Þegar hann hafði tekið lögfræðispróf, tók hann til starfa í félagi við eldri lögfræðing árið 1864. Til þingsins í Quebec fylki var hann kosinn sjö árum síðar (1871) og að þremur árum liðnum (1874) til allsherjar þings Kanada. Þegar hann hafði flutt fyrstu ræðu sína á því þingi, gekk enginn úr skugga um, að þar var atkvæðamaður á ferðinni, sem mikið mundi láta til sín taka síðar. Var til þess tekið, hvílíkt vald hann hefði á enskri tungu,

þar sem hann var algjörlega frakkneskur maður að ætt og uppeldi. Hjá Mackenzie-stjórninni varð hann innanríkis tollmálaráðgjafi 1877, en hafði það embætti að eins skamma stund, þar sem frjálslynda stjórnin varð undir við kosningarnar árið eftir. Frá því var Laurier í flokki stjórnar-andstæðinga, þangað til 23. júní 1896, ekki skemur en tuttugu og eitt ár.

En svo vel þótti hann halda vörnum uppi fyrir þjóðmálaskoðunum flokks síns á þessu tímabili, að álit hans hjá þingi og þjóð fór stöðugt vaxandi. Sá hét *Blake*, er fyrst framan af var foringi frjálslynda flokksins á þingi þessi árin, en 1887 sagði hann af sér, og var þá Laurier í einu hljóði sá vandi á hendur falinn. Mjög tregur hafði hann til þess verið, því fyrirrennari hans var stórgáfaður maður, þó ekki væri hann ávalt eins heppinn né lipur í frammistöðu sinni og æskilegt hefði verið. Yfirleitt hafði flokkurinn fundið foringjum sínum það til foráttu, að þeir hefðu ekki lag á að vinna hug og hjarta fólksins, er þeir voru að flytja því skoðanir sínar á velferðarmálum lands og þjóðar, og var því að nokkuru leyti kent um, að flokkurinn hafði lítið fylgi.. Hæfileikar Lauriers einmitt í þessa átt munu engum hafa dulist, því hann er þjóðlegur mælskumaður í fyrstu röð, er hrífur hugann ekki einungis með orðum og röksnild, heldur með unaði þeim og fegurð, er hvílir yfir persónu hans og látbragði. Aftur voru menn ekki eins vissir um, að hann ætti í fórum sínum nógu mikið af ráðkænsku og þreki til þess að láta flokk sinn bera sigur úr býtum í viðureigninni við þaulæfða og rammslæga þjóðmálagarpa. En reynslan hefir sýnt, að hann stendur engum á baki að þessu leytinu heldur.

Enda hefir enginn þurft meira á öllu þessu að halda en hann. Honum reið nú á að ná fylgi Quebec-fylkisins, en þar átti afturhaldsflokkurinn og Sir John Macdonald öruggasta vígi sitt, svo álitið var að framsóknarflokkurinn mundi þar aldrei geta orðið ofan á. Enda er skrumsaga sú höfð eftir Sir John eftir kosningasigurinn 1878, að hann hafi sagt í ræðu yfir borðum í heiðurssamsæti einu: „Grittarnir (framsóknarflokkurinn) komast aldrei til valda meðan eg er uppi.“ Enda stóð hann við orð sín. En smátt og smátt vann Laurier svig á fordómum manna, svo margir í andstæðingaflokki hans fóru að bera lotningu fyrir honum og skoðunum hans. Annars vegar átti hann að berjast gegn tollverndarstefnunni, sem orðin var gömul og rótgróin. Hins vegar gegn klerkavaldinu kaþólska, og stóð hann þar óvenjulega illa að vígi, þar sem hann er sjálfur einn í tölu andlegra þegna páfans. Um þetta leyti kom líka upp skólamálið fræga hér í Manitoba, þar sem fylkisstjórnin neitaði að leiða aftur sérstaka lýðskóla í lög handa kaþólskum mönnum, sem numdir höfðu verið úr gildi í fylkinu 1890. Mál þetta setti hugi manna einkum í ákafa æsing, því bæði kom gamall þjóðernisrígur þar til greina og trúarskoðanir, sem unnið höfðu hefðarhelgi. Bæði málin voru saman undin og tvinnuð við ýms landsmál önnur og voru því örðugri viðfangs. Í Manitobadeilunni þurfti einkum á lagi og ráðkænsku að halda. Kaþólsku klerkarnir og afturhaldsliðið með Sir Charles Tupper í broddi fylkingar lögðust þar á eitt með að fá sérstaka skóla aftur innleidda handa kaþólskum mönnum. Biskuparnir kaþólsku létu hirðisbréf út ganga, er tvisvar voru lesin í kirkjum Quebec-fylkis og var hinum trúuðu þar blátt áfram skipað

að greiða atkvæði gegn leiðtoga frjálslynda flokksins, er svo illa hefði brugðist kirkju sinni. Mátti þá svo virðast sem í flest skjól væri fyrir honum fokið og þýðingarlítið fyrir hann að ætla sér að sannfæra trúarbræður sína um réttlæti þess málstaðar, er prestar og biskupar höfðu lýst í bann. Aldrei hefir neinn maður í verri ógöngum verið með málstað sinn en hann virtist þá. Það þurfti sannarlega á einbeittum vilja að halda og ódeigri lund, enda sýndi nú Laurier, að hann átti hvorttveggja. Hann lét sem hann sæi klerkavaldið ekki, en hóf sína frægu vörn fyrir samvizkufrelsi kaþólskra borgara í almennum landsmálum. Árangurinn af þeirri vörn er eitt hið þýðingarmesta atriði í stjórnmálasögu landsins. Atkvæði féllu honum í vil með miklum meira hluta, einkum í Quebec fylki. Afskiftum kaþólskra klerka af stjórnmálum landsins var um leið kinnhestur gefinn og greinarmunur í fyrsta skifti gjörður milli þeirrar hlýðni, er kaþólskir menn ættu að sýna andlegum leiðtogum sínum í safnaðarmálum og í borgaralegum efnum. Íbúar Quebec-fylkis hafa svarið sig í ætt við frændur sína á Frakklandi með því að tjá sig umburðarlyndisins megin í máli þessu og láta sér þar frjálsmannlega farast. En öllum kemur saman um, að engum leiðtoga hefði tekist að koma þessu til leiðar, nema Laurier einum.

Hann er ákafur fylgismaður og einlægur hinna helztu framsóknarmanna brezkra, er uppi hafi verið, og hugsjónir annarra eins manna og Burke, Fox, Bright og Gladstone hafa eins og endurfæðst hjá honum. Eins og þeir, hefir hann ávalt einlægur vinur Bandaríkjanna verið og fyllilega viðurkent, að frá þeim er sambandsríkja hugmyndin til Kanada runnin. Bæði sem stjórnarand-

stæðingur og forsætisráðherra hefir hann látið þetta vinarþel til Bandaríkjanna í ljós og óskar fastlega, að öll ágreiningsmál milli þessara nágrannaþjóða séu vinsamlega útkljáð. Enginn Kanadamaður mun heldur eiga öðrum eins vinsældum og áliti að fagna í Bandaríkjunum og Laurier.

Áður hefir verið bent á, hvílíkur unaður hvílir yfir persónu hans og látbragði. Aldrei kemur þetta betur í ljós en þegir hann flytur ræður sínar, enda talar hann ávalt af sannfæringu,beint út úr hjarta sínu,og föðurlandsástin varpar ljóma sínum yfir allar hugsanir hans í stjórnmálum. Hann er jafn-vígur í allar áttir. Tilfinningarnar, vitsmunirnir og viljinn verða að láta dyr sínar hrökkva upp fyrir honum. Sumar af ræðum hans þykja eins ágætar og nokkurar aðrar, sem fluttar hafa verið í Kanada. Eitt sinn var hann að tala máli umburðarlyndisins út af löggjöf snertandi Jesúíta og sagði: „Látum oss muna, að þótt vér krjúpum ekki fram fyrir sama altarinu, krjúpum vér samt fram fyrir hinum sama drotni.“ Svo er sagt að orð þessi hafi hnitið þeim í hjartastað, er heyrðu, að þeir hafi gleymt smámunalegum fordómum og þrefi og borist ósjálfrátt inn í heim kærleika og friðar. Hægt er að heyra það á framburði Laurier's, að hann er maður frakkneskur. Enda talar hann frakkneska tungu jöfnum höndum, svo ekki má í milli sjá hvort málið lætur honum betur. En sagt er, að sá frakknesku-blær, er framburður hans á ensku máli hafi,sé í hans munni meira til prýði en óprýði. Þegar Sir John Macdonald féll frá, var hver lofræðan um hann haldin á fætur annarri í lægri málstofu Kanada-þingsins, en engin önnur eins og sú, er Laurier flutti.

Vinsældir Lauriers og þá lotningu, sem fyrir honum er borin, má bezt af því marka, að *Sir Oliver Mowat*, er í tuttugu ár hafði verið forsætisráðherra Ontariofylkis og hefði getað verið það enn, lætur sér lynda að verða dómsmálaráðgjafi undir hans forustu; forsætisráðherrarnir í Nýja Skotlandi og Nýju Brúnsvík gjörðu slíkt hið sama. Stjórnmálasaga Kanada er ekki með öllu flekklaus fremur en annarra landa, en enginn flekkur loðir við lund Lauriers; hann hefir aldrei verið grunaður um græsku. Maðurinn Laurier er engu síðri né ógöfugri en ræðusnillingurinn eða stjórnvitringurinn.

Á fagnaðarhátíð drotningarinnar var hann erindreki Kanada og fulltrúi; var hann þar í glæsilegum hópi hinna frægustu brezku manna og mikilhæfustu og þótti bera af flestum þeirra. Það tók undir í landi þeirra Pitt's og Gladstone's af mælsku hans og vináttuböndin milli Kanada og Bretlands urðu þá traustari en nokkuru sinni áður.

---



## STRATHCONA LÁVARÐUR.



LORD STRATHCONA

Með sönnum mikilmennum, sem Kanada hefir sér af að hrósa, verður *Strathcona* lávarður ávalt einn hinn helzti. Hann hefir ef til vill frekar en nokkur maður annar rutt þjóðinni braut til framfara og velmegunar. Híð eiginlega nafn hans er *Donald Smith* og við það nafn kannast menn alla leið frá Quebec til Vancouver, Hann er fæddur í Morayskíri á Skotlandi árið 1820. Hann gekk í skóla í þorpi sveitar sinnar í æsku sinni. En átján ára gamall gekk hann í þjónustu *Hudson*-flóafélagsins og var hann þá sendur til hinnar köldu og hrjóstugu *Labrador*-strandar. Var þar fátt til fagnaðar, en þó ekki að öllu eins ömurlegt og nú. Þá voru skógar miklir þar í dölum og sumsstaðar á hæðum, en þeim hefir nú ýmist eldurinn eytt, eða félagið, er látið hefir höggva

þá niður miskunarlaust. Nóg var þar líka um þær mundir af villidýrum; þá var þar fult af elgsdýrum, músdýrum og hreindýrum, bjarndýrum svörtum, hvítum og mórauðum, mörðum, hreysiköttum og refum, rauðum og gráum. Þarna varð hann að vera með Eskimóum, er standa nokkurn veginn neðst í menningarstiga mannkynsins. Einhverjum hefði leiðst að þurfa að vera þar í fjórtán ár.

Þá var honum sagt þaðan að fara og til Norðvesturlands Kanada. Um þær mundir var það svæði landsins nokkurn veginn eins lítið þekt eins og þeir landshlutar, sem mönnum eru allra minst kunnir. Hudson-flóa-félagið réði þar þá lögum og lofum. Það hafði reist vígin frægu frá Quebec og vestur að Klettafjöllum. Mönnunum, er voru í þjónustu þess, veitti það nákvæma eftirtekt, og fáir höfðu reynzt því jafn-áreiðanlegir, hagsýnir og ötulir og Donald Smith. Hingað til þekti enginn nafnið hans nema félagið og villimenn. Hann bjó í þagnarinnar landi og það var eins og hann ætlaði þaðan aldrei að komast. Hann var að eins faktor eins og margir aðrir, sem þjóð vor hefir þekt bæði fyrr og síðar.. En upp frá þessu fór faktorinn að verða kunnur, því hvar sem hann fór, leysti hann störf sín snildarlega af hendi og svo samvizkusamlega, að orð var á því haft. Ávalt komst hann vel af við alla. Ávalt hélt hann loforð sín. Fram á þenna dag er sagt, að enginn hermi upp á hann loforð, er hann ekki efndi, ef hægt var. Grávaran hans kom ávalt með góðum skilum. Honum kom vel saman við Indíána. Hann sýndi þeim ávalt tiltrú, en sveik þá aldrei, og til endurgjalds voru þeir til þess búnir að láta líf sitt fyrir hann, ef á þurfti að halda. Það var nú tekið

að hefja hann frá einni trúnaðarstöðu til annarrar. Að síðustu var hann gjörður að landsstjóra fyrir alt Norðvesturlandið af hálfu Hudson-flóa-félagsins, því um það l yti hafði félagið á hendi landstjórn ekki síður en verzlun. Voldugur keppinautur þess, „Norðvestur grávöru- og verzlunar-félagið", lagðist á leið þess og hrifsaði til sín alt, er það mátti, bæði með hrekkjum og ofbeldi. Þá var það Skotinn með miklu brýrnar og síða skeggið, sem ósjaldan kom með krók á móti bragði og lét keppinautinn á því kenna, að ekki var við lambið að leika sér þar sem hann var. Hann varð oft að láta hart koma gegn hörðu. En einkum bar hann sigur úr býtum í þeim viðskiftum, vegna þess, hve vel Indíánar og kynblendingar treystu honum. Hingað til var fátt hvítra manna í landinu, en upp frá þessu fóru þeir að fjölga og áhrif þeirra að verða meiri. Fyrir viturleg ráð og milligöngu landstjórans tokust samningar við stjórnina, sem staðfestu verzlunar-einkaréttindi félagsins á aðra hönd, en þar sem félagið hins vegar lét önnur mikilsverð einkaréttindi af hendi fyrir þrjú hundruð miljónir punda sterling og heilmikið af löndum. Þessir samningar Kanadastjórnar hleyptu af stað uppreist kynblendnga undir forustu *Louis Riel.* En af því stjórnin kvaddi Donald Smith til þess að komast eftir orsökum uppreistarinnar fyrir hennar hönd, datt óánægja þessi brátt niður. Hans vitru ráð og vingjarnlegu ráku óttann og úlfúðina á dyr og réttlæti hans og mannúð komu aftur á jafnvægi í huga þeirra. Fyrir þessi heppilegu málalok fekk hann opinbert þakklæti landstjóra Kanada og ráðaneytis hans. Þegar Manitoba fylki myndaðist var hann sendur á þing frá Winnipeg og St. John. Héruðunum fyrir vestan Manitoba var enn

stjórnað af ráði einu; var Donald Smith kvaddur til að vera meðlimur þess. Seinna var hann sendur á sambandsþing Kanada frá Selkirk-umdæmi og þar sat hann oftast nær, þangað til árið 1896. Þá var hann kvaddur til að vera fulltrúi Kanada í Lundúnaborg sem *Lord High Commissioner* og þeirri stöðu gegnir hann enn.

Stærsta þrekvirkið og þýðingarmesta, sem hann hefir fyrir Kanada unnið höfum vér samt ekki minst á enn. Þegar tímar liðu fram, var farið að tala um járnbrautartengsl frá hafi til hafs í Kanadalöndum. Um leið og það kom til tals, gjörðist Donald Smith helzti hvatamaðurinn. Í járnbrautarmálum hafði hann þegar nokkura reynslu, þar sem hann hafði í félagi við *James J. Hill* frá St. Paul og *George Stephen* útvegað fé til St. Paul og Kyrrahafsbrautarinnar, er J. J. Hill gjörðist umsjónarmaður yfir. Út úr þessu félagi myndaðist annað félag með hér um bil alveg sömu mönnum, er tók að sér að koma Kanada Kyrrahafsbrautinni á. Til þess starfa var Donald Smith allra manna bezt kjörinn,því enginn þekti lands lag og lofts eins vel og hann,frá því hann var faktor Hudson-flóa-félagsins. Þegar hann flutti það mál fyrir Sir John Macdonald léði hann því fljótt eyru. Þegar hann sýndi honum fram á, hvílíkar auðsuppsprettur landflæmi þetta hefði í skauti sínu, varð hann hugfanginn. En þegar hann bauðst til að vera einn af þeim, er tækist stórvirki þetta á hendur, var Sir John eigi lengur efablandinn, heldur upp til handa og fóta og studdi fyrirtækið með ráð og dáð og öllum þeim einkennilega dugnaði, er hann átti yfir að ráða. Sir Charles Tupper hefir gefið Donald Smith þenna vitnisburð: „Kanada Kyrrahafsbrautin hefði eigi verið til þann dag í dag, þrátt fyrir

alla hjálp stjórnarinnar, ef það hefði ekki verið fyrir dugnað, atorku og einbeittan vilja Sir Donald Smith". Og nákvæmlega sama vitnisburðinn gefur James J. Hill honum. Enda hefir stjórnin á Englandi við þetta kannast og hafið faktorinn frá Labrador-ströndinni úr einni tign í aðra. Á sextíu ára afmæli drotningarinnar 1897 var hann loks hafinn til aðalstignar og nefndur barón *Strathcona* og *Mount Royal frá Glencoe í Argyle-sýslu og Montreal-borg í Quebec-fylki.* Hann var þá auðugur maður orðinn og átti konungleg heimili í Lundúnum, Montreal og Winnipeg. Hér í Winnipeg er hann eigi oft nú orðið, en býsna oft í Montreal og er heimili hans þar opið öllum vinum hans, ekki sízt hinum eldri frá árunum, er hann var í þjónustu Hudson-flóa-félagsins. Hann þykir hinn skemtilegasti heim að sækja. Viðmótið er vingjarnlegt og gáfulegt um leið. Hlýlega tekur hann í hendina á öllum og hefir lag þeirra manna, er lengi hafa í hinum vestlægu óbygðum verið, að láta þeim líða vel, er nærri honum eru, eins og ættu þeir þar heima. Manna fimlegast þykir honum farast að segja sögur, enda hefir hann frá mörgu að segja. Gjafmildur er hann og stórgjöfull, þegar því er að skifta. Á afmælishátíð drotningarinnar gaf hann í félagi við Mount Stephen lávarð eina miljón dollara til sjúkrahússins í Montreal og seinna hefir hann gefið sömu stofnaninni átta hundruð þúsund til viðhalds. McGill háskólanum hefir hann gefið fjögur hundruð og sjö þúsund dollara. Háskólanum hér í Winnipeg hefir hann eins og kunnugt er heldur ekki gleymt og hans örlæti er það að miklu leyti að þakka, að hægt var að fjölga kennurum skólans um helming síðast liðið ár. Tuttugu þúsund dollars hefir hann gefið í eftir-

launasjóð aldurhniginna presta, er presbyterakirkjunni heyra til, því þar á hann sjálfur andlegt heim

Það hefir heppilega verið um hann sagt, að hann væri fyrir allra hluta sakir ágætasti maðurinn, sem Kanada gæti hrósað sér af. Algjörlega af sjálfsdáðum hefir hann hafist til vegs og valda. Hann er maður stórgáfaður, örlátur að fé, frjálslyndur og prúðmenni hið mesta. Engu konungsvaldi þurfti á að halda til að hefja hann til aðalstignar. Til þeirrar tignar hafði hann þegar hafist af eigin rammleik og sýnt,að hann var til hennar fæddur.

---



# VESTUR AÐ KYRRAHAFI.

## FERÐASAGA

EFTIR

F. J. BERGMANN.

### I.

### Yfir fjöll og firnindi.

Þreyta og ferðaþrá. Gamla hreiðrið mitt. Á járnbrautinni. Sinn munnbitinn frá hverjum landshluta upp í alheimshungrið. Klettafjöllin. Fossafjöllin og fjalladýrðin. Fjöllin og mennirnir.

Það var komið fram í byrjun júlímánaðar. Allir, sem vetlingi gátu valdið hér í borginni, voru annað hvort að búa sig til ferðar einhvers staðar út á landsbygðina, þar sem þeir ætluðu að dvelja næstu vikur og njóta náttúrunnar, eða þeir voru þegar farnir. Skólabörnin flugu eins og fuglar úr fangelsi um leið og skólatíminn var úti, svo það sást varla barn á öllu strætinu. Hver drenghnokkinn hafði lagt af stað á fætur öðrum þangað, sem honum hafði verið fenginn staður, eins vígabarðalegur og þó hann ætlaði að leggja alla jörðina undir sig.

Þá fór eg að hugsa mér til hreyfings. Langferðahugurinn óx með hverjum degi. Þreytan eftir veturinn lagðist yfir mann með öllum þunga sínum. Bækurnar og penninn voru nú orðnir óvinir mínir og fjandmenn, óal-

andi og óferjandi öllum bjargráðum. Á skrifborðinu lá alt í hrúgu og ekki til þess hugsandi að færa þar nokkuð í lag. Engin önnur úrræði, en að flýja það alt og hrista það af sér eins og vondan draum, sem annars lætur mann ekki í friði.

En fyrst var að hugsa um konuna og börnin. Þau ætluðu að flýja á gamlar stöðvar og leita skjóls og athvarfs á heimilinu okkar í Dakota, þar sem við nutum sólskinsblíðunnar í sextán sumur, og þar sem endurminningarnar um fegurstu árin, starfið og stríðið, fögnuðinn og sársaukann, kvaka til manns eins og fuglar á hverjum kvisti.

Svo flugum við öll úr hreiðrinu suður með lestinni. Sóttum heim vini og vandamenn, komum seinast heim í garðinn okkar, sátum undir trjánum eða lágum í grasinu og kunnum okkur ekki læti — börnin ekki sízt; þau báru sig að eins og fuglar í Paradís.

En nú var mér ekki til setunnar boðið. Eg varð að kveðja — og fljúga lengra. Næsta dag átti eg að vera kominn aftur til Winnipeg, til þess að leggja af stað þaðan með Kanada Kyrrahafsbrautinni vestur á Kyrrahafsströnd. Þangað hafði eg lengi þráð að koma og sú þrá einlægt vaxið, því smám saman var fólk þangað að flytjast búferlum, sem mér um langan tíma eða skemri hafði verið kært og kunnugt. Nú höfðu einstakir menn á mig skorað að koma vestur þangað sem snöggvast. Og eg stóðst ekki mátið, en lofaði þeim að koma, og varð nú að standa við orð mín.

Svo var eg heppinn, að annar maður réðst til farar með mér — vinur minn og góðkunningi, Guðmundur Þórðarson, bakari. Hann ætlaði líka að létta sér upp og

leita hvíldar frá langvinnum önnum og umsýslu. Í síðustu andránni breyttum við áætlun og tókum okkur far með Norðra hinum mikla eða *Great Northern*-brautinni, því með henni kemst maður á skemstum tíma vestur þangað, sem ferðinni var heitið.

Þegar lestin var loksins á skrið komin, fanst okkur sem nú mundu hjólin halda áfram að snúast og snúast, þangað til við værum komnir á heimsenda. Mér fanst eg hafa einhverja óskiljanlega tilhneiging til að loka augunum og líta ekki upp fyrr en eg væri kominn alla leið. En er suður kemur á aðal-brautina og haldið er vestur frá *Grand Forks* í Norður-Dakota í skoðunarvögnunum indælu, þar sem setið er eins og í glerhöll, því hliðarnar mega heita allar gagnsæar, og maður hvílir sig í léttum hægindastólum, er flytja má horn úr horni eins og í stofunni heima, eða fær að velja úr nýjustu tímaritunum til að lesa, þegar maður þreytist á að horfa út — þá fær maður sannarlega löngun til að halda augunum opnum og drekka í sig alt hið nýja, er þá ber fyrir bæði í andans og náttúrunnar heimi.

Það var því býsna áliðið orðið, er við fórum að fela okkur á bak við rekkjureflana mjúku í svefnvagninum. En hvílík unun það er að gèta stígið upp í konunglega hvílu og fá að sofa þar eins vært og í eigin sæng sinni, og samt að þeytast áfram viðstöðulaust og vita það fyrir víst, að maður hefir flogið hundruð mílna, er hann bregður blundi næsta morgun, hafi ekkert óhapp fyrir komið. Eða með höfuðið á koddanum að lyfta upp blæjunni, láta tunglið skína inn til sín og horfa yfir bygðir og ból, fljúgandi fram hjá eins og í einhverri töfrasýning. Þá er sá sannarlega klaufi, sem ekki kann að dást að menningu

heimsins né skilja, hvílíkur unaður það er að fá að njóta hennar.

Við vorum komnir vestast í Dakota, þegar við vöknuðum, og brátt flugum við inn í fjallalandið, *Montana,* þar sem hafast við hjarðirnar miklu, bæði naut, hestar og sauðfé, og þangað sem sælkerarnir horfa bæði að austan og vestan, er þeir vilja seilast í safamikla kjötkrás á borð sín. Brauð í Dakota, kjöt í Montana. Dásamlega er þessu öllu fyrir komið. Til Dakota og Manitoba hrópar nú heimurinn eftir brauði, en til Montana og Norðvesturlandsins eftir kjöti.. Á þessu tvennu lifa menn og fleiri og fleiri verða munnarnir með hverju ári. Hver landshluti hefir ákveðið ætlunarverk; þeir leggja sinn bitann hver á borðið til að seðja alheimshungrið mikla. En ekki er landið fagurt, en bert og nakið og bygðin strjál, eins og búast má við, þar sem beitilönd eru mikil.

Að kveldi var farið að skríða upp Klettafjöllin. Þar verður þá svo undur-lítið úr lestinni. Yfir sléttlendið orunar hún eins og jötunn, ýgldur og ægilegur, sem hrópar til alls, er á vegi verður: Hafið þið hægt um ykkur; eg á þetta alt saman. En þegar til fjallanna kemur, er eins og jötunn þessi verði að taka ofan og láta vera að bera sig eins drembilega. Hann verður að læðast áfram í einlægum bugðum og krókum eins og höggormur eða ánamaðkur, og manni fanst það að eins vera af náð og miskunnsemi,að fjallið lofar þessu kvikindi að skríða upp hlíðar sínar.

Klettafjöllin eru mjög ólík íslenzku fjöllunum. Að vísu eru þau stór og hrikaleg, en þó líkari afarmiklum heiðaklasa en fjöllum, eftir því sem vér Íslendingar hugsum oss þau. En er vestur kemur í Fossafjöllin *(Cascade*

*Mountains)* svonefndu, er að mörgu leyti eins og annað ísland renni upp fyrir augum manns. Þau eru víða snarbrött og feykihá, með þröngum dalverpum og djúpum, en gnæfandi tindum hér og þar, ísiþöktum og óumræðilega tignarlegum. Ósjálfrátt fyllist hjartað lofgjörð og lotning. Það er eins og augað sjái dýrðina drottins ljóma um hvern fjallstind. Hugurinn fær nýja vængi. Hann fer að langa til að lyfta sér upp í himnanna himna. Eitthvað innan í manni vill fljúga á arnarvængjum fram fyrir hann, sem skapað hefir alt þetta og lagað það í hendi sér. En á næsta augnabliki brestur alla djörfung, því svo er hátign handaverkanna mikil, að maðurinn,þetta lítilsiglda fiðrildi jarðarinnar, felur sig á milli trjánna eða birgir fyrir augu sér, um leið og hann fer að hugsa sér höfundinn sjálfan nálægan.

Aldrei verður maður eins lítill og þegar hann stendur undir fjalli. Mannabygðirnar aldrei eins broslega lítilfjörlegar og upp á milli fjalla. Það verður ekkert úr þeim. Á sléttlendinu vekur húsagjörð mannanna oft og tíðum býsna mikla eftirtekt. En upp til fjallanna verður ekkert úr henni. Þar virðast manni skrautlegar borgir hreinasta hrófatildur, — spilaborgir, barnaglingur . Upp til fjalla verða mennirnir og allır loftkastalar þeirra hégómlegt smásmíði.

Fyrir þá, sem búið hafa á víðlendri sléttu, þar sem aldrei sér til fjalla, er það líkast því að koma í skrautlega dómkirkju, með hárri hvelfing og hljómþýðum organtónum að vera staddur upp á milli voldugra fjalla.

Og þó gat eg ekki að því gjört, eg sárkendi í brjósti um þá hina fáu, sem þarna höfðu tekið sér bústaði. Svo fanst mér það algjörlega vonlaust starf að eiga að gjöra

sér jörðina undirgefna, þarna á þessu svæði. Skógurinn er ógurlega stórvaxinn og hrikalegur og í hann svo sem hvergi nokkurt rjóður. En jarðvegurinn er hrjóstugur mjög, moldin rauð og ófrjó, full af möl og urð og stórgrýti, svo ekki er árennilegt að koma upp ökrum og sáðreitum, enda verður þess svo sem ekkert vart upp til fjallanna, nema í stærstu dölunum. Sögunarmylnur og timburverzlun nokkurn veginn eini atvinnuvegurinn, að því er landbúnaðinn snertir. Enda er Kyrrahafsstrandar-hallandinn nú farinn að verða nokkurn veginn hið eina timbur-forðabúr meginlands Ameríku. Hvarvetna annars staðar eru frumskógarnir að hverfa fyrir yrkjandi mannshöndinni.

## II.
## Menn og málefni.

Hafið. Koman til Ballard. Bærinn og nokkurir Íslendingar. Árni Jónsson. Sumarliði Sumarliðason. Einar og Friðbjörn. Jón Reykdal. Sveinn Björnsson. Jónas A. Sigurðsson. Íslenzki söfnuðurinn. Blaðið. Guðsþjónusta.

Það er komið kveld. Klukkan er orðin átta — farin að ganga níu. Tveir sólarhringar réttir eða 48 klukkustundir síðan lestin lagði af stað vestur frá *Grand Forks* í Norður-Dakota, en 54 síðan við fórum frá Winnipeg. Þá — áður en við vitum af — erum við komnir heilu og höldnu alla leið vestur að hafi — hafinu, sem hugurinn ávalt elskar og þráir. Þarna var það, kyrt og rólegt, með guðlegri stilling yfir sér, eins og spegilfögur eilífðarskuggsjá, er aldrei segir frá nokkuru leyndarmáli, en geymir þau öll í skauti sínu með óumræðilegri þagmælsku, þangað til á efsta degi.

Fyrsti bærinn, sem til er komið á ströndinni, þegar

farið er með þessari braut, heitir *Everett*, heilmikil borg, óðum vaxandi að fólksfjölda og velmegun eins og aðrar borgir þar vestra. Þangað eru einar 17 hundruð mílur frá Winnipeg, sem við vorum búnir að skoppa á þessum tíma. Þaðan liggur leiðin suður með ströndinni til borganna *Ballard* og *Seattle*.

Til Ballard vorum við komnir stundu síðar. Þangað var ferðinni heitið í bráð og þóttumst við ekki hepnir, því nú var komin rigning og niðamyrkur. En þar voru þá tveir góðkunnir landar okkar til taks, sem tóku okkur tveim höndum og fögnuðu yfir komu okkar. Vorum við i húsi Árna Jónssonar, sem lengi bjó í Brandon, um nóttina í bezta yfirlæti.. Hann og þau hjón eru ættuð af Vesturlandinu, komin hingað vestur fyrir mörgum árum, en höfðu að eins dvalið þar á ströndinni í eina átta mánuði. Árni er fróður maður í íslenzkum bókum, les alt er út kemur og dæmir um það með góðri greind og skilningi, enda er hin bezta skemtun við hann að ræða og heyra hinar stillilegu skoðanir hans og gætnu á mönnum og málefnum.

Ballard er eins konar undirborg hinnar miklu stærri *Seattle*-borgar og tengd henni með rafmagns-strætabrautum, svo farið er á milli á örskömmum tíma fyrir ein 5 cts. Er það einkum vinnulýðurinn, sem býr þar. Þeim, sem að austan kemur, virðist umferð í bænum alveg furðanlega lítil. Tímunum saman getur maður setið þar við glugga og horft út á strætið og annað hvort séð eina hræðu eða enga hreyfa sig eftir götunni. Verzlunarbúðir sá eg þar æði-margar auðar standa, og víða þar sem vörur voru nógar inni,var næsta fátt um manninn um daginn að sjá. Það hlýtur því að vera hæpið nokkuð að ætla sér

að reka þar verzlun. Íslenzk matvöruverzlun var þar ein og myndarlegt þar inn að koma. Hún var rekin af Einari Grandy og Friðbirni Friðrikssyni, sem báðir eru nýlega vestur komnir frá Dakota, þar sem þeir bjuggu sóma og myndarbúum, í grend við Gardar, og söknuður þótti að þeim, er þeir fóru. Fyrir einstakan dugnað og áhuga þótti verzlunin ganga eftir öllum vonum. Snemma morguns fór Einar í kring til viðskiftavina sinna allra til að fá að vita,hvað þeir þyrftu að fá yfir daginn,og síðdegis var svo aftur ekið með vörurnar í kring heim í hvert hús, og er það fyrirhafnarlítið fyrir kaupandann, en tafsamt fyrir kaupmanninn. Á þann hátt seljast heilmiklar vörur, þótt fátt komi fólk í búðina yfir daginn.

Æði-margt af ágætu ísl. fólki hefir flutt vestur á ströndina úr Dakota og hlakkaði eg ekki lítið til að sjá þetta fólk aftur, fá að endurnýja góðan kunningskap og ógleymanlegan og sjá með eigin augum, hvernig því liði. Einkum var það familía ein, góð og göfug, sem mér var mikill fögnuður að sjá aftur. Var það Sumarliði gullsmiður Sumarliðason frá Æðey og fólk hans. Fundum okkar bar fyrst saman sumarið 1884 upp við Ísland á póstskipinu danska. Þá brá eg mér þangað kynnisför frá Noregi, var þar eina þrjá mánuði, en fór svo utan aftur að hausti til Kaupmannahafnar og þaðan til Kristjaníu.

Á þeirri ferð hitti eg Sumarliða og fólk hans, sem þá var að flytjast til Ameríku. Þó hann væri þegar á efra aldur hniginn og maður bæði marg-reyndur og marg-fróður, en eg ungur og ærslafullur, runnu sefar okkar saman,og hefir vinátta sú, sem þá hófst með okkur, síðan haldist. Þegar hann kom vestur, bjó hann fyrst í

nágrenni við foreldra mína og varð vinur þeirra. Síðan fluttist hann til Milton, smábæjar eins í grend við nýlenduna, og stundaði þar gullsmíði sitt, sem honum lætur einkar vel, því hann er völundur mesti að eðlisfari, enda ferðaðist hann ungur hvað eftir annað um á Norðurlöndum, til að fullkomnast í iðn sinni og læra ótal margt annað, er að verklegri menningu ltur, svo fáir bændur íslenzkir munu jafningjar hans verið hafa, hvort heldur að verklegri þekkingu eða bóklegri. Sá hann prýðilega fyrir sér og fjölskyldu sinni, svo að snild þótti eftir komu sína hingað vestur, því heill hópur barna hrúgaðist í kring um hann, hvítan af hærum. Það var ávalt ánægjulegt til hans að koma og hinnar ágætu konu hans, því hugurinn var svo ern og vel vakandi, hugsunarhátturinn svo frjáls og göfugmannlegur, en hjartalagið hlýtt og einlægt. Eftir sextán ára dvöl í Dakota fluttist hann með fólk sitt vestur, mest vegna heilsu sinnar, og þótti öllum söknuður að honum.

Ekki hitti eg nú betur á en það, að hann var ekki heima. Hafði hann fyrir nokkuru síðan farið til kunningja síns norðar á ströndinni og stóð þar við slátt með orfi og ljá i sumarhitanum og er hann þó maður holdugur og kominn langt yfir sjötugt. En konan hans var ekki lengi að senda til mín og bjóða mér að koma þangað og dvelja í húsi þeirra, meðan eg væri þar. Það þáði eg og þangað fluttum við félagar og áttum þar hverjum deginum öðrum betra. Öllu leið ágætlega, börnin orðin stór og hin mannvænlegustu, synirnir önnum kafnir við smíðar, dóttirin ein útskrifuð þar af lýðháskólanum og búin að fá kennarastöðu í Seattle, önnur sívinnandi við sauma fyrir ágætt kaup, en ein því miður veik, og orðið af þeim or-

sökum að flýja langar leiðir burtu til borgarinnar *Denver i Colorado,* þar sem hún með ærnum kostnaði dvelur á heilbrigðisstofnun einni í tjöldum úti, í von um helzt með því móti að geta unnið bug á sínum geigvæna óvin.

En eigi er fjölskylda þessi sú eina af sóknarbörnum mínum á Gardar, sem vestur er komin. Þarna hitti eg mér til mikillar ánægju Kristján H. Gíslason og konu hans. Hann er sonur Hallgríms heitins Gíslasonar frá Rútsstöðum í Eyjafirði,eins hins merkasta bónda íslenzks, er eg hefi þekt, sökum frábærrar lundfestu ag réttlátrar lífsstefnu. Mun hans lengi minst verða sem eins hins merkasta íslenzkra landnámsmanna i Vesturheimi og einkennilegasta. Kona Kristjáns er Hallfríður Hallgrímsdóttir, góð kona og vel viti borin; en móðir hans, Herdís Jónsdóttir frá Mjóadal í Bárðardal, háöldruð orðin, til heimilis hjá þeim með dóttur sinni, ógiftri. Var mér ánægja hin mesta til þeirra að koma.

Einar Einarsson Grandy og Friðbjörn Friðriksson reka verzlun þá, er áður er um getið, og eru báðir góðir drengir og félagslyndir. Einkum er Einar áhugamaður um kristilegan félagsskap og góða siði og tekur sér nærri, hve illa landar vorir standa að vígi i þessum efnum þar á ströndinni.

Auk þessa fólks, sem mér var áður kært fyrir langa viðkynningu og góða, kyntist eg ýmsu fólki öðru, sem miklu lengur hafði dvalið í þessum vestrænu heimkynnum en þetta Dakota-fólk, er að eins hefir búið þar skamma stund. Jón Reykdal og kona hans hafa búið í Ballard nú mörg ár, enda virtist mér heimili þeirra vera eitt hið prýðilegasta allra Íslendinga þar. Hann er Borgfirðingur að ætt,tók sér fyrst bólfestu í Minnesota-nýlend-

unni, en varð þaðan að fara sökum heilsubrests. Það er myndarmaður hinn mesti og þau hjón bæði, og hið ánægjulegasta til þeirra að koma, því bæði er hjartalagið gott og hugsunarhátturinn allur, og til einskis sparað að láta þeim gestinum, er að garði kemur, sem bezt líða. Þau hjón bæði eru á meðal þeirra, er heitast þrá, að kirkjulegur félagsskapur geti hafist þar á ströndinni og þar geti söfnuðir myndast í sambandi við kirkjufélagið, er einhver vel hæfur prestur og ákjósanlegur fengist til að þjóna. — Þá er líka Sveinn Björnsson (Péturssonar) og kona hans Kristrún Ólafsdóttir (prests Indriðasonar) meðal elztu Íslendinga á ströndinni. Til þeirra var mér mikið yndi að koma og virtust mér þau dæma um menn og málefni með skýrleik og sanngirni, hvort heldur í grend eða fjarlægð, enda hafa þau skilning prýðilega glöggan á öllu sem fram fer. Heimili þeirra er hið myndarlegasta og viðtökurnar hinar beztu. Er sonur þeirra, Páll, nýgiftur og býr hjá foreldrum sínum.

Í bænum Ballard býr líka Jónas A. Sigurðsson, sem fyrrum var þjónandi prestur í nágrenni við mig í Norður-Dakota. Eins og kunnugt er, sagði hann söfnuðum sínum upp prestsþjónustu nokkuð að óvörum og lýsti um leið yfir því, að hann ætlaði sér að ganga inn í aðra lífsstöðu. Álitu flestir, sem til þektu, að hann ætlaði sér að taka upp lögfræðisnám, og var ekki efast um, að sú staða mundi láta honum vel, því hann er að flestu leyti ágætum hæfileikum búinn. Af einhverjum ástæðum hefir ekkert af þessu orðið, og telja menn það baga fyrir sjálfan hann, því þó loftslagið sé gott á ströndinni, þykir gott fyrir alla að hafa eitthvað fyrir stafni.

Fyrir skömmu síðan myndaðist íslenzkur söfnuður í

Ballard. Gekst síra Runólfur Runólfsson fyrir því, með tilstyrk góðra manna. Hann stóð þá í sambandi við *General Council* og hefir um nokkur ár þjónað löndum vorum í *Utah*.. En ekki urðu Ballard-Íslendingar lengi ánægðir með hann og varð hann því eftir skamma stund að hverfa þaðan. Var þá söfnuðurinn prestslaus og varð það þá úr, að hann samdi við Jónas A. Sigurðsson um prestsþjónustu að einhverju ofurlitlu leyti, þótt hann hefði eiginlega lagt prestsskap niður og væri ekki lengur í þjónustu krkjufélagsins. Hefir hann því haldið uppi sunnudagsskóla og haft guðsþjónustusamkomur einu sinni í mánuði hverjum.

Ráðlag þetta mun mörgum hafa mjög á móti skapi verið, einkum lang-flestum þeirra, er lengst höfðu í söfnuði verið og bezt voru kunnir ástæðum öllum og undangenginni sögu.. Þess vegna eru þeir að eins ör-fáir, sem hallast hafa að þessari safnaðarstarfsemi og viljað vera henni sinnandi. Allur fjöldi manna stendur þar fyrir utan, ýmist afskiftalausir eða andvígir. Einstöku góðir menn hafa þó léð þessu fylgi sitt, álitið fyrirkomulag þetta að eins til bráðabirgða og betra að veifa röngu tré en engu, meðan ekki væri annars kostur.

Samkomuhúsi hefir verið komið upp ekki ósnotru og utan um það hefir dálítið félagslíf myndast. Lestrarfélag hafa Íslendingar þar, sem *Vestri* nefnist, og heldur það fundi all-tíða. Blað hefir félagið ofurlítið, skrifað, og er Mr. Sigurðsson ritstjóri. Er það lesið upp til fróðleiks og skemtunar á fundum, en ekki voru allir ánægðir með efnið, né heldur það, hvað þar hafði stundum óvægilega verið sveigt að mönnum og málefnum, og álitu það fremur til að sundurdreifa en samansafna.

Sunnudaginn næstan eftir að eg kom til Ballard, var kirkja fengin hjá lúterskum söfnuði Norðmanna þar í bænum og flutti eg þar guðsþjónustu fyrir fólki allmörgu. Býr langflest af því í Ballard, en nokkuð í *Seattle* og *Smith's Cove*, sem er þar miðja vega á milli. Mr. Sigurðsson var þar viðstaddur. Og er eg heilsaði honum þar, kvaðst hann sjá fleiri í heimkynnum fyrirdæmdra en hann hefði átt von á. En eg huggaði mig við, að prédikað hefði verið jafnvel fyrir öndunum í varðhaldi forðum, og hefir þá eflaust furðað á prédikaranum og prédikaninni ekki síður en nú var ástæða til. Seinna var eg í húsi hans og spjölluðum við þá um alla heima eins og í gamla daga, og er það ávalt ánægja, því maðurinn er svo prýðilega skýr, og bæði hraði og leikur í hugsunum hans.

## III.

## Um borg og bý.

Borgir og landsbygð. Afurðir. Skógarnir. Sjávarútvegur. Austurlandaverzlun. Tacoma. Mount Rainier. Risavaxin tré Warrenton. Ásvaldur Sigurðsson, Sigfús S. Bergmann. Jón Hallgrímsson. Niðursuða. Seaside. Hafið. Austrið og vestrið. Astoria. Benedikt Halldórsson. Portland. Sýningin 1905.

Þegar komið var svona langa leið, fanst okkur samferðamönnunum báðum sjálfsagt vera að sjá sem mest af ströndinni Fórum við þá fyrst til borgarinnar *Tacoma* og er það ein 30 mílna leið; fórum við hana með rafmagnsbraut, sem þar liggur á milli. Samgöngufærin eru bæði fjölbreitt og sérlega greið þar á ströndinni. Ýmist getur maður farið með járnbrautum, rafmagnslestum eða gufubátum. Enda er fólk sífelt á ferð og flugi. Það er eins og fjöldinn hafi ekki annað fyrir stafni en að ferðast og skemta sér.

Annað, sem ókunnugur maður þegar veitir eftirtekt, er þetta: Þarna er hver stórbærinn við annan, Seattle með hátt á annað hundrað þúsund manns, Tacoma rétt hjá með einar níutíu þúsundir, en landsbygð mjög lítil og strjál og akuryrkja skamt á leið komin. Hún á sér einungis stað í dalverpunum, því þar er jarðvegur langbeztur. Landið alt þakið sígrænum nálaskógi, afarhrikalegum og stórvöxnum, svo ekki er hægt að ryðja land og búa undir akuryrkju nema með afar-kostnaði. En borgirnar á ströndinni bæði margar og mannfjöldinn mikill, vegna þess hve margir setjast þar að loftslagsins vegna.

Aðalafurð landsins er timbrið. Vesturströndin má nú heita aðal-forðabúr alls þessa mikla meginlands, að því er timburverzlun snertir. Austur frá eru skógarnir hvarvetna að hverfa. Það má svo að orði kveða, að búið sé að rýja landið, svo það er eftir bert og nakið. nema að svo miklu leyti sem aftur er plantað, en vanalega verður sá skógur meira til skrauts og skjóls, en til verulegra afnota sem efniviður. En þarna á vestúrströndinni er enn ógrynni eftir af timbri, sem nú er verið að höggva niður með áfergju óskaplegri. Sögunarmylnur eru alls staðar, enda er við þær helzta atvinnan fyrir daglaunamanninn. Nokkuð verður lengi verið að vinna allan þenna óskapa skóg og leggja hann að velli. En allar líkur eru til, að mikið af honum verði farið að 50 árum liðnum. En þó eftirsjón mikil sé í honum, er það þó fyrsta skilyrðið fyrir því, að farið verði fyrir alvöru að yrkja landið. Að 50 árum liðnum verða hlíðarnar meðfram ströndinni að líkindum mjög víða þaktar ökrum og aldintrjám. Að 100 árum liðnum verður mannshöndin sjálfsagt búin að leggja alt þetta indæla land undir sig og

yrkja nálega hvern blett, og verða þarna þá einhverjar hinar fögrustu mannabygðir á hnettinum. En hundrað ár, jafnvel fimtíu ár, eru langur tími. Þess konar stórvirki gjörast ekki á einum degi. Fyrsta og önnur kynslóðin, sem að því vinnur, ber ekki mikinn sigur úr býtum. En úr því fara rjóðrin að stækka og árangurinn að verða meiri. Því þó jarðvegurinn sé þarna víðast hvar fremur ófrjór, vex furðanlega í honum sökum frábærrar veðursældar, svo öll líkindi eru til, að landflæmi þetta gefi mjög mikið af sér, þegar mannshöndinni hefir tekist að yrkja það og rækta.

Eins og timbrið er aðal-afurð landsins og aðalatvinnuvegur fjöldans, er fiskurinn og sjávarúthaldið auðsuppspretta fyrir marga, er það stunda. Hafið og árnar er, eins og kunnugt er, óumræðilega auðugt á þessu svæði. Það má svo að orði kveða, að þarna séu laxakistur alls heimsins. Því í samanburði við það, sem þarna veiðist, er öll laxveiði önnur eins og örlítið sandkorn.

Þriðja grein atvinnunnar, sem heldur þessum stórborgum við, er verzlunin og einkum og sér í lagi verzlunin við Austurlönd, sem hin síðari ár hefir aukist og margfaldast. Þessi Austurlanda-verzlun má því álítast eitt þýðingarmesta atriðið fyrir framtíð Kyrrahafsstrandarinnar. Viðskiftin, sem nú eru komin á við Austurlönd og búast má við að margfaldist í nálægri framtíð hljóta að verða óumræðileg auðsuppspretta fyrir borgirnar, sem þarna sitja fyrir henni. Enda má búast við, að þau hafi margföld áhrif og mikilvæg á heimsverzlunina alla og beina henni inn í öldungis nýjan farveg.

*Tacoma* er indæll bær, öllu skemtilegri að mér fanst en Seattle, þó miklu minni sé. Hefir sú borg verið nefnd

örlagaborgin *(the City of Destiny)*, eða eftirlætisbarn örlaganna, svo glæsileg hefir framfarasaga hennar þótt. Þar skoðuðum við okkur um fram og aftur og dáðumst að náttúrufegurðinni. Eins og kunnugt er, heitir hæsti tindurinn og göfugasti í fjallaklasa þeim, er Fossafjöll nefnast *(Cascade Mountains)* *Mount Rainier*, ekki ósvipaður að lögun fjalli fósturjarðar vorrar hinu fræga, — Heklu, er heimur allur kann með oss að nefna. Miklu er hann samt risavaxnari og meiri um sig, enda 14,500 fetum hærri en yfirborð vatnanna næstu*(LakeWashington)*. Frá Seattle sést hann á heiðskírum dögum gnæfa við himin í suðurátt, svo tignarlegur og voldugur með höfuðdjásnið sitt hvíta, að engan furðar, þótt Indíánarnir féllu fram fyrir honum á ásjónur sínar eins og einhverjum guði. Tindur þessi sést álíka glögt frá Tacoma og Seattle, en svo þykir Tacomaborg um hann vænt, að hann er þar ekki nefndur sínu eiginlega nafni, heldur *Mount Tacoma*, og með því gefið í skyn, að aðrir eigi ekki með að eigna sér hann.

Helzt er það til óprýðis í Tacoma eins og öllum borgunum við ströndina, að leifar eru eftir frumskógarins gamla innan um sjálfa borgina og setur það eins konar frumbýlingssvip á þær allar. Á auðum blettum innan um bæina, sér maður endalaust geysimikla trjástofna standa eftir og ýmislegt rusl annað,—leifar af trjám,sem eru að fúna niður og verða að engu. Smám saman hverfur þetta auðvitað. En það bendir til þss, hve afarörðugt það er að ryðja skógana. Enda eru sum trén þar svo stór, að hús allvæn eru reist á stofni þeirra, — húsið alt látið hvíla á stofninum eins og grunni. Fyrir hefir það komið, að skilinn hefir verið eftir óvanalega hár stofn, þegar tré

hefir verið felt. Þá hefir hann verið holaður innan, spónþak sett yfir og glufur teknar á hliðarnar fyrir dyr og glugga. Stundum er grafið undir ræturnar, milli álmanna , sem út í jörðina liggja, og var mér sagt, að þetta væri notað fyrir hesthús og mætti koma fyrir einum fimm hestum undir einum slíkum stofni. Fáa mun því furða á því, þó mér þætti það einhver óálitlegasti atvinnuvegur fyrir mann bláfátækan og með tvær hendur tómar að ætla sér að ryðja land þarna á vesturströndinni og lifa af akuryrkju. Það ætla eg að minsta kosti allflestum Íslendingum of erfitt viðfangs.

Mjög langaði mig til að nota tækifærið og heimsækja Íslending einn, sem heima á í Tacoma, Prof. Gunnlaugsen. Hann er kennari við hið svo nefnda Tacoma-University. En tíminn var naumur og óvíst, að hann væri heima, svo ekkert varð af því.

Frá Tacoma héldum við suður með ströndinni til borgarinnar *Astoria,* sem liggur við mynni Columbia-árinnar; er það eitt af stórfljótum landsins og frægt um heim allan sem eitt hinna fiskisælustu fljóta á hnettinum. Þaðan héldum við til bæjar eins lítils í grendinni,er *Warrenton* nefnist. Þar hafa sezt að fjölskyldur nokkurar austan úr Dakota-bygðum Íslendinga. Fyrstur var þar Ásvaldur Sigurðsson, er lengi bjó að Eyford, bróðir Sigurðar Sigurðssonar, sem nú er sýslunefndarmaður *(County Commissioner)* í Pembina County. Eru þeir bræður systursynir Einars Ásmundssonar í Nesi og menn hinir myndarlegustu eins og þeir eiga kyn til. Sigfús S. Bergmann, sem bjó um nokkur ár í Morden nylendunni, er kvæntur systur þeirra bræðra. Fóru þau hjón þangað vestur, er Ásvaldur var kominn til Warrenton, og með

þeim Jón Hallgrímsson, bóndi að Gardar, sem kvæntur er Sigríði, systur Sigfúsar. Nú búa þessir þrímenningar þarna í smábæ þessum fyrir reginhafi og una hag sínum all-vel. Hafa þeir umsýslu all-einkennilega á hendi og djarflegri en flestir Íslendingar aðrir, er vestur hafa flutt. Mikið er af skelfiski einum þar á ströndinni, sem *Razor Clams* nefnist. Líkastur er hann ostrum, og þó ekki eins meir og lostætur, en með öldungis sama keim og þykir mörgum sælgæti. Þenna skelfisk hafa þeir Sigfús Bergmann og Ásvaldur Sigurðsson tekið sér fyrir hendur að sjóða niður og eru nú í óðaönn að ryðja þessari vöru sinni rúm á heimsmarkaðinum. Hefir Sigfús nýlega tekið sér ferð á hendur til sýningarinnar í St. Louis til þess að sýna þessa vöru og fá stórkaupmenn til að vera sér út um hana hjá þeim félögum. Enda eiga þeir það skilið, því þeir hafa heilmiklu fé til kostað og engu til sparað að láta vöruna líta eins vel út að öllu leyti og nokkuð samkynja, sem haft er á boðstólum. Skelfiskur þessi grefur sig niður í sandinn, en skilur eftir ofurlitla holu, svo hægt er að sjá, hvar hann er að finna. Verður að moka skeljunum upp úr sandinum. Er svo ekið heim með þær á degi hverjum að niðursuðuhúsinu. Þar eru þær látnar í kassa, sem klæddur er blikki innan. Svo er sjóðandi vatnsgufu hleypt á þær. Opnast þá skeljarnar smám saman við hitann. En um leið og þær opnast, gefa þær frá sér lög gráhvítan, sem *Clam Nectar* nefnist, og er lögur þessi vandlega hirtur, því hann er hið eiginlega sælgæti í sambandi við skelfisk þenna. Sjálfur er hann nokkuð seigur. Þegar hann hefir verið verkaður innan eins og hver önnur skepna, er hann saxaður sundur býsna smátt og leginum helt yfir. Láta þeir

félagar síðan ýmist bæði löginn og skelfiskinn í blikkbaukana eða löginn að eins. Verður af hvorttveggja hin bezta súpa og ljúffengasta. Töluvert eru þeir þegar farnir að selja af þessari vöru sinni og takist þeim að gjöra þetta að nokkuð almennum varningi, er óhætt að ætla, að þeir fái fyrirhöfn sína og tilkostnað vel borgað.

Hjá þessu fólki var mér hin mesta unun að vera, enda voru viðtökurnar hinar ástúðlegustu. Eg sá mest eftir því, að geta ekki dvalið þarna svo sem mánaðartíma, fengið mér tjald og legið í því úti í fjöru fyrir opnu hafi. Þá fanst mér, að eg mundi hvílast og safna fjöri og þrótt fyrir komandi tíma. En því miður mátti eg það ekki. Í nágrenninu skoðuðum við okkur um sem bezt við máttum. Fórum sem snöggvast með járnbrautinni til smábæjar eins úti í bláfjörunni rétt hjá, sem *Seaside* nefnist. Það er eins konar sumarbústaður og þar dauðlangaði mig til að setjast að um stund. En í stað þess sulgum við sjávarloftið í stórum teigum þau fáu augnablik, er við dvöldum þar, og mændum út á hafið, sem þar birtist manni í hátign og alveldi.

Ekkert í öllu náttúrunnar ríki sogar huga minn til sín og heillar eins og hafið. Svo fanst mér nú mikið til um það, að eg spurði sjálfan mig, hvort nokkurt annað haf í heimi mundi eiga annan eins töfrandi seyðkraft og hafið kyrra. Af vesturströnd Ameríku mænir augað yfir það inn í hinn austræna töfra-heim, þar sem vestræn menning og austræn eru nú að heyja grimman hildarleik, svo eigi má enn á milli sjá, hvor muni hærra hlut úr býtum bera. En hafið horfir á, kyrt og hljótt, og ýmist ber blóðugar bardagafregnir milli landa, eða dylgir um, hver áhrif sá voðaleikur muni hafa á örlög þjóðanna og mann-

kynsins alls. Þarna horfast vestrið og austrið í augu. Hví skyldu þau berast á banaspjótum? Hví skyldi vestræn menning og austræn eigi falla hvor annarri í faðm og mynda æðri eining? Fyrst vaknaði austrið og tók til starfa; menning þess rann upp eins og fífill í túni,—eins konar undurnjóli, sem ýmist visnaði upp eða úreltist og gekk af sér. Svo sofnaði austrið og hefir sofið draumlitlum svefni og löngum. En á meðan vaknaði vestrið og tók menningu heimsins að sér. Og mikil og glæsileg er hún, einkum í líkamlegum efnum. Nú stendur vestrið við dyr sinnar ausrænu systur, hrópar og kallar og biður hana að rísa af dvala.

Skyldi það eigi takast? Skyldi eigi konungsdóttirin í Aladdínshöllinni rísa upp aftur og hrista af sér álagahaminn? Skyldi hún ekki eiga eftir, að lyfta menningu mannkynsins upp á álíka hátt stig andlega eins og vestlægri menningu hefir tekizt að hefja hana í líkamlegum efnum?

Frá vinum vorum í *Warrenton*, sem svo ástúðlega höfðu við okkur tekið, héldum við aftur til *Astoria*, sem er býsna stór borg og myndarleg og fræg fyrir laxveiðar og lax-niðursuðu. Þar hitti eg Íslending einn, sem mér var kunnur úr æsku, Benedikt Halldórsson,skóara,—einn Hildarsoninn. Eg man eftir honum á Akureyri, þegar eg var drengur og kom til hans með föður mínum. Var hann þá fjörugur og kátur og lék við hvern sinn fingur, þó hann sæti hálfboginn yfir skósmíð sinni. Síðan eru nú liðin ein þrjátíu og fimm ár. Á þeim hefir hann víða farið, orðið margt að reyna eins og gengur og er kominn eins langt vestur á bóginn og frekast má. Hefir hvarvetna stundað skóaraiðn sína og sat nú hálfboginn

við „leistinn“, eins og þegar eg sá hann fyrst í æsku. Hann er nú öldungur orðinn, en að öðru leyti leyti alveg sá sami, ern og fjörugur og kátur og hjartað funheitt innan undir úlpunni. Ætti hann að vera hér á vegum Helga magra, því hann er sannur Íslendingur í lund, þó lengi hafi hann nú mest mök haft við aðrar þjóðir.

Upp með Columbia-ánni alla leið til borgarinnar Portland þutum við með lestinni um kveldið. Lentum þar á einni hinni glæsilegustu gistihöll, sem unt er að hitta, átum þar og sváfum og nutum lífsins eins og konungar. Landslag með fram Columbia-ánni er skínandi fagurt. Þrír göfugir fjallstindar standa þar á verði og gnæfa við himin og nefnast þeir *Hood* (Hettan), *Adams* og*St. Helens.* Borgin er höfuðborg *Oregon-* ríkis, er dregur nafn sitt af hinu forna nafni Columbia fljótsins. Lega borgarinnar er hin fegursta og hvergi leizt mér jafnvel á mig á allri ströndinni, enda stendur hún að auðæfum og aldri öðrum borgum á þessu svæði framar. Árið 1905 á hér að halda sýning mikla fyrir öll ríkin á vesturströndinni. Er sú sýning kend við þá *Lewis* og *Clarke,* fyrstu landkönnunarmennina, sem fyrir hundrað árum réttum sögðu heiminum fyrstu áreiðanlegu sögurnar af landinu, og er nú þegar farið að efna til hennar af miklu kappi. Má þá búast við, að margur bregði sér vestur til þess að fá hugmynd um Kyrrahafsströndina og þá ljómandi framtíð, sem alt það mikla land hlýtur að eiga fyrir hendi. Af því landið er svo tröllauknum skógi vaxið, tekur það óralangan tíma að yrkja það og rækta í samanburði við sléttlendið skóglausa, sem á einu vetfangi breytist í blómlega akurrreiti, um leið og mannshöndin snertir við því.

En á hundrað árum vinna mennirnir stundum kraftaverk. Og lítill efi getur á því leikið, að það kraftarerk verði unnið áður ný öld rennur.

En langt er fyrir fátækan einstaklinginn eftir því að bíða.

Nú vorum við komnir einar 200 mílur suður á bóginn. Yndi hefði nú verið að halda áfram suður í California-sólskinið og blómsturdýrðina, sem frægt er orðið um heim allan. En við máttum ekki um það hugsa. Snerum því norður aftur til Tacoma. Létum hana njóta þess, hve vel okkur hafði þar að öllu geðjast og vorum þar næturgestir. Tókum okkur far með gufubát daginn eftir til Seattle. Er ljómandi skemtilegt að fara eftir firðinum og njóta golunnar utan af hafinu.

## IV.

## Norður á bóginn.

Blaine. Frímann Sigfússon. Kristján Casper. Guðsþjónusta. Fyrir hverju hafa menn gengist? Ísl búskapur. Magnús Jónsson. Jón Sveinbjörnsson. Point Roberts. Sólsetursdýrðin. Marietta. Eyleifur Guðmundsson. Gunnar Holm. Guðsþjónusta. Guðbrandur Westmann. Steingrímur Hall. Til Ballard aftur.

Næsta ferðin var norður á bóginn. Norður við landamærin hafa Íslendingar heilmargir tekið sér bólfestu í bæ einum litlum og nýfæddum, er *Blaine* nefnist. Frá Ballard og Seattle er nálægt hundrað mílum norður þangað. Á laugardag komumst við þangað um miðjan dag og hittum við þar vin okkar Jón Reykdal frá Ballard, sem áður er getið. Frímann Sigfússon frá Gardar tók þar við okkur tveim höndum. Það var eins og faðir kæmi til barnanna sinna, þegar eg kom til fólks úr bygðunum íslenzku í Norður-Dakota. Tengdafaðir Frímanns

er Kristján Casper, er lengi bjó að Hallson og síðar nam land austur í Minnesota. Hafa þeir Kristján og Frímann matvöruverzlun þar í Blaine og hefir sú sýsla látið þeim allvel það sem af er, enda sögðu menn, að vera mundu nálægt fimm hundruð Íslendinga í Blaine og er það góður hópur. Á sunnudaginn flutti eg þar guðsþjónustu og var ein stærsta kirkja bæjarins og álitlegasta til þess fengin. Mátti svo heita, að hún væri full af fólki, alt saman Íslendingum, enda telst mönnum svo til, að þar muni 500 manns af íslenzku fólki. Við þá guðsþjónustu skírði eg ein tíu börn. Samt voru það margir, sem af ýmsum ástæðum höfðu ekki getað komið. Sumir bændur þar úti á landsbygðinni enda ekki heyrt, að neinn ísl. prestur væri á ferðinni.

Í Blaine og nágrenninu þar í kring hafa landblettir verið fáanlegir við lægra verði en annars staðar. Annars eru jarðeignir, smáar og stórar, í gífurlega háu verði með fram allri ströndinni. Þó vilja miklu fleiri selja en kaupa. Þetta lága verð hefir dregið Íslendinga þangað. Þá langar ávalt til að ná sér í ofurlítinn landblett eða jarðarskika, svo þeir geti haft eina eða tvær kýr. Geti þeir það, eru þeir býsna ánægðir. Nægjusemin er svo mikil hjá mörgum. Einkum vill hún furðanlega ná tangarhaldi á hugum manna,þegar þeir eru komnir vestur að hafi. Þar er svo margt,sem freistar til værðar,enda eru flestir þar býsna værukærir, nærri því hvaða þjóðerni, sem þeir heyra til.

Íslenzka bygðin í Blaine er svo sem tveggja ára gömul. Ýmsir, er áður áttu heima víðs vegar með fram ströndinni, eru nú þangað komnir. Sögunarmylna er þar ein og eitthvað af niðursuðuhúsum. Atvinna er þar því

fremur lítil, en miklu fleira fólk þangað komið, en lifað getur á atvinnu þeirri, er bærinn hefir að bjóða. Verður það því fremur vafasamt, hvort þessi Íslendinga-bygð helzt þar lengi við, ef ástæður ekki breytast frá því, sem nú er. Samt leið fjöldanum þar vel og furðanlega voru margir búnir að búa um sig.

Á sunnudagskveldið ók Frímann Sigfússon með okkur nokkurar mílur út á landsbygðina. Búa þar nokkurir bændur íslenzkir í röð í rjóðrum dálitlum með fram vegveginum. Eg heimsótti þar góðan bónda og heiðvirðan hér úr austur-bygðum, Magnús Jónsson frá Fjalli í Skagafirði, sem fyrst reisti bú í Nýja Íslandi eftir komu sína vestur hingað og þaðan flutti til Argyle, þar sem hann bjó nokkur ár fyrir norðan bæinn Glenboro. Magnús er greindur maður og gegn og hugsar miklu fleira en alment gjörist með bændum, enda er hann allvel pennafær maður og hefði líklega dálítill rithöfundur orðið, ef hann hefði náð skólamentun. Tel eg það skaða, að lífið hefir einangrað hann svo, að hans nýtur ekki í félagsskap vorum, því þar hefði átt ljós að verða af liprum gáfum hans, þótt ofurlítið sé hann einrænn og gjarn á að fara einförum. Hann hefir keypt sér einar sex ekrur af landi spölkorn fyrir utan bæinn fyrir níu hundruð dali. Helmingurinn var rutt land og hreinsað og íbúðarhús allgott með aldinreit í kring. Nú er hann búinn að ryðja blettinn allan og hreinsa; hefir hann svo plægt upp jörðina og sáð í hana grasfræi; hefir svo heyið til fóðurs handa kúm sínum eða selur, ef hann hefir afgangs. Auðvitað þarf hann að vinna daglaunavinnu, þegar hún fæst, eins og allir þessir íslenzku bændur, sem dálítinn landblett hafa eign-

ast. Af því landið er í svo háu verði og af því svo afarörðugt er að ryðja skóginn, er býsna torvelt ófjáðum mönnum að komast svo langt í búskapnum, að þeir verði ekki til þess neyddir að sinna daglaunavinnu að all-miklu leyti. En með því móti getur lífið auðvitað ekki orðið jafn-ánægjulegt.

Í Blaine hitti eg heilmarga gamla vini og kunningja, sem örðugt yrði upp að telja, en mikla ánægju hafði eg af að geta heilsað upp á þá. Meðal þeirra var Jón Sveinbjörnsson frá Argyle og sonur hans Þorkell, maður nýkvæntur. Eru þeir feðgar alveg nýlega vestur fluttir og hafa keypt sér lönd fyrir norðan landamærin, þótt byggju þeir enn í Blaine. Kanadamegin eru lönd miklu ódýrari og mun þar hægt að fá 160 ekrur fyrir miklu minna verð en tíu ekrur fyrir sunnan. Voru þeir feðgar að búa um sig fyrir norðan línuna og voru kátir og ókvíðnir; dáðist eg í huga að hugrekki þeirra, þar sem þeir ætluðu sér nú að segja frumskógunum stríð á hendur.— En án þessa hugrekkis gjörir maðurinn sér ekki jörðina undirgefna.

Ljómandi þótti mér fagurt í Blaine. Þaðan sér maður fjallstind einn göfugan gnæfa við himin, sem mig minnir, að *Mount Baker* nefnist. Þaðan sér maður líka yfir á *Point Roberts*-tangann, og er þar Íslendingabygð heilmikil. Langaði mig að koma þangað, sjá búskap þeirra og kynnast fólkinu, en bátaferðir voru þangað svo óþægilegar, að heil vika hefði til þess eyðst, og hvarf eg því frá þeirri fyrirætlan. Hagur íslenzku bændanna er sagður þar allgóður, enda hafa þeir þar býsna lengi dvalið. En sá ókostur er á kjörum þeirra, að þeir geta ekki fengið eignarrétt fyrir landspildum þeim, er þeir búa þar á, því Bandaríkin hafa ánafnað sér tangann fyrir

herstöðvar og er búist við, að farið verði að byggja þar í því skyni áður langt líður.

Hvergi naut eg sólsetursdýrðarinnar eins vel og í Blaine. Sólsetursins á Kyrrahafsströndinni er hvarvetna við brugðið. Allur vestur-hluti himinsins verður logandi. Það er eins og kvikni í sængurtjöldum sólarinnar um leið og hún gengur til hvílu. Skýin verða öll að dýrindis purpuradúkum, sem tjaldað er með guðdómlegri list fyrir augu manns. Smám saman rennur þessi dökkrauði purpuralitur yfir í annan ljósari og áður en maður veit af horfir maður inn í lýsigullshöll svo dýrlega, að jafnvel hinn mælskasti verður orðlaus af aðdáun.

Hvílík munu sjálf heimkynni ljóssins vera, þegar endurskin þeirra hér fyrir dauðlegum augum vorum verður svo dásamlegt!

Í Blaine skildi með okkur félögum. Samferðamaður minn, Guðmundur Thordarson,brá sér norður til Victoria, til þess að skoða sig einnig um þar, eins og góðum Kanadamanni sómdi. Enda þykir þar fagurt mjög og einkennilegt og vel þess vert að leggja dálitla lykkju á leið sína til að koma þar. Langaði mig töluvert til þess, en þótti tíminn of naumur, af því eg hafði ýmislegu öðru að sinna, áður eg hyrfi heim aftur. Fór eg því á meðan suður til smábæjar eins, er *Marietta* heitir, einar 30 mílur fyrir sunnan Blaine. Þar eru þó nokkurir Íslendingar. Járnbraut liggur þangað engin, en að eins sex mílur þaðan, til bæjarins *Bellingham,* sem er allstór, og fallegur að útsýni. Hét sá bær áður *New Whatcom,* en rann saman við annan bæ, er Fairhaven nefndist. Vildi þá hvorugur bærinn ganga undir nafni hins og var þeim þá gefið þetta sameiginlega nafn, Bellingham. Býsna

margir landar höfðu tekið sér þar bólfestu um tíma. En nú eru flestir þeirra komnir annað hvort til Blaine eða þá Marietta. Í þorpinu Marietta kom eg fyrst til gamals kunningja míns frá Pembina, Eyleifs Guðmundssonar, Skaftfellings, og var þar ágætt að koma; eru synir hans efnilegir menn. Rétt við hlið hans búa hjón ein íslenzk frá Minnesota, Mr. og Mrs. Hólm. Þar vorum við Jón Reykdal í bezta yfirlæti og voru þau hjón hvort öðru ástúðlegra og heimili þeirra hið snotrasta. Um kveldið flutti eg guðsþjónustu í skólahúsi þar fyrir fólki allmörgu; var þar eftirtekt svo góð, sem bezt mátti verða, og gladdi það mig þeim mun meir, sem ókyrrleiki var mikill í Blaine og erfitt þess vegna að tala. Þarna hitti eg vin minn, Sumarliða Sumarliðason, ernan og kátan eins og æskumaður væri. Hafði þó staðið við slátt dag eftir dag með orfi og ljá í sumarhitanum um nokkurn tíma fyrirfarandi. Var það hjá manni einum, er eg þarna hitti fyrsta sinni,Guðbrandi Vestmann, ættuðum af Vestfjörðum eða þaðan vestur hingað kominn, — náskildur dr. Jóni Þorkelssyni yngra. Hefir hann verið all-lengi vestur á ströndinni, ein 15—16 ár að minsta kosti, enda á hann nú eina stærstu bújörðina, sem nokkur Íslendingur á þar, einar 80 ekrur. Eru líkur til, að það verði mikils virði áður langt líður, því Bandaríkjastjórn er að gera umbætur, sem þurka upp mikinn hluta af landareigninni, sem áður hefir staðið undir vatni.. Er Guðbrandur þessi skýrlegur maður og myndarlegur eins og hann á ætt til. Dvaldi hann um nokkurn tíma í Gardar-bygð áður hann fluttist vestur..

Þarna hitti eg líka Steingrím Hall (Hallgrímsson), bróður Jónasar Hall á Gardar, og marga gamla kunn-

ingja fleiri, er of langt yrði upp að telja. Ókum við með honum sex mílna leið til Bellingham, virtum þar fyrir okkur fagurt útsýni yfir sjóinn og bæinn frá hæstu sjónarhæð og skemtum okkur hið bezta.

Seinna hluta dags skilaði lestin okkur heilu og höldnu til Ballard. Sumarliði Sumarliðason hafði yfirgefið sláttinn, til þess við gætum notið þeirra fáu daga saman, sem eg átti eftir að vera. Og gat hann ekkert fyrir mig gjört, sem mér hefði þótt vænna um. Hjá honum og hans góðu konu var eg nú enn nokkura daga og voru þeir hver öðrum ánægjulegri. Félagi minn, Guðmundur Þórðarson, kom norðan að aftur þenna sama dag.

---

## V.

## Í friði og næði.

Borgin Seattle. Landslag og útsýni. Gistihöllin glæsilega. Háskólinn. Siðferði og lífsstefna. Græða menn á skiftunum? Félagsskapur. Kristilegur áhugi. Hvernig væntanlegur prestur þarf að vera. Samsætið. Sögulok.

Hingað til höfðum við einlægt verið á ferð og flugi. og naumast nokkura hvíldarstund haft frá því við fórum frá Winnipeg. Eg var orðinn býsna þreyttur af flakkinu og fagnaði yfir að mega nú hvílast í næði nokkura daga, áður eg héldi heimleiðis aftur. Enda átti eg eftir að skoða mig um í Seattle, því mig langaði til að fá sem glöggasta mynd í huga minn af landi og lýð, úr því eg var út í þessa langferð kominn.

Seattle er ákaflega víðlend borg og fólksmörg. Fólksfjöldann sögðu sumir vera 175,000, aðrir 190,000. Fremur fátt af Íslendingum á þar heima, en margir eru þar í vinnu. Landslag er þar svipað og alls staðar með

fram ströndinni. Það má svo heita, að fjall-lendið nái ofan að hafinu. Bæirnir standa því allir í bratta, Seattle ef til vill einna mestum. Strætisvagnarnir skríða upp og niður snarbrattar brekkur. Hillur eru búnar til í brattann fyrir strætin. Bærinn líkist því eins konar bókaskáp, þar sem hver hillan er upp af annarri, en auðvitað hallast þessi borgarskápur heilmikið aftur á bak. Byggingarnar eru þar stórar og reisulegar og stórborgarbragur á öllu. Um miðbik bæjarins á kaupsýslusvæðinu er umferð mikil og mannmargt. En það svæði virtist mér öllu minna umfangs en búast mætti við í borg jafn-fjölmennri.

Útsýnið er skínandi fagurt. Hvergi naut eg þess eins vel og frá gistihöll einni nýreistri, er *Washington Hotel* nefnist. Stendur hún á hæð allmikilli, fast út við sjó, og brattinn svo mikill, þegar farið er með strætisvagni beint upp að höllinni, að maður verður að ríghalda sér, til þess að renna ekki til í sætinu. Þegar þangað er komið upp, sér maður borgina alla breidda út fyrir augum sér eins og landabréf. Fyrst dalurinn fyrir neðan og svo hlíðarnar nærri því á þrjá vegu, óskaplegt flæmi, alt krökt af híbýlum mannanna.

Þessa gistihöll var alveg nýbúið að reisa og naumast svo fullgjör væri, þegar *Roosevelt* forseti fyrir skemstu ferðaðist vestur. Þarna var hann látinn gista og föruneyti hans og hefir aðsókn síðan verið svo mikil, að ekki hafa nærri allir fengið þarna inni, sem æsktu, og er þó húsið feikilega stórt. Sagt var mér, að grafa ætti sundur endann á hæð þessari, og setja þar upp rokna-steinbygging, er eiginlega stæði niðri í dalnum, en yrði hæðinni nokkurn veginn jafn-há, þannig að skrautreitur einn indæll, vaxinn ljómandi trjám og blómreitum fyrir vestur-

hlið hallarinnar, ætti að mynda þakið á tröllhýsi þessu, en hliðarnar þrjár að koma fram jafn-utarlega og höllinn, svo einungis sú hliðin, er að höllinni vissi, yrði birtulaus.

Í gistihöll þessari sýndist alt það skraut og þægindi, er auðæfin geta komið fyrir á einum stað, vera saman hrúgað. Eg skoðaði mig þar um í krók og kring, settist við eitt púltið, skrifaði konunni minni bréf og sagði henni, að nú sæti eg líklega við sama borðið og forseti Bandaríkjanna, þegar hann hefði verið á stöðvum þessum.

En líti maður augunum ögn út fyrir bæinn og láti þau dvelja yzt i sjóndeildarhringnum frá hæð þessari, kemur manni fljótt til hugar, hve lítilfjörlegar djörfustu byggingar mannanna eru í samanburði við byggingarnar drottins. Í suðri mænir fjallakonungurinn mikli, *Mount Rainier,* við himin. En í vestri — því þarna er maður staddur við botninn á löngum firði, er skerst á ská inn í landið,— liggja Ólympísku fjöllin eins og víggirðing, með tindum og kastalaturnum gnæfandi við himin. Hvergi blasir hátign náttúrunnar og fegurð betur við auganu en hér.

Háskólabyggingarnar allar og söfnin skoðaði eg mér til mikillar ánægju allnákvæmlega; þær eru veglegar að mörgu leyti og er þó það, sem komið er, að eins loforð um það,er seinna kemur. Auðséð,að hér er alt í byrjun eins og annars staðar í vestlægu ríkjunum,enda er mannfélagið hér svo ungt. En háskólar og háskólasöfn myndast ekki á svipstundu, svo í góðu lagi sé, hvað mikil auðlegð, sem fyrir hendi er. Það verður að hafa langan vöxt og viðgang og mannfélagið, er það vex upp í, verður að vera komið hlutfallslega langt í menningu. Það má eiga

það víst, að þegar búið verður að ryðja landið og yrkja á þessu svæði, að svo sem 50 til 100 árum liðnum,þá verða háskólarnir búnir að ná margföldum þroska við það, er nú á sér stað.

Fram að síðustu tímum hefir það kveðið við, að Seattle væri ein af hinum lökustu borgum Bandaríkjanna, að því er siðferði snertir. Og víst er um það, að lífið hefir þar að nokkuru leyti borið nokkuð tryllingslegan blæ. Drykkjustofur óhæfilega margar, opnar bæði sýknt og heilagt, og alls konar ósiðsemi og ólifnaður í sambandi við þær. Eftirlit lítið og afllaust af hálfu lögreglunnar. Iðjuleysi býsna alment og uppeldi unglinga agalítið og stefnulaust. Afskiftaleysið og það að láta alla hluti sigla sinn eigin sjó stöðug lífsregla fjöldans. Veðursældin svo mikil, að svo sem enga áhyggju þarf að bera fyrir vetrinum. Ekkert rekur eftir. Bezt að láta fjölina fljóta, berast með straumi, leggja sem minst á sig, skemta sér sem allra mest og njóta lífsins meðan má. Á þessari lífsstefnu og lífsskoðun hefir meira borið á Kyrrahafsströndinni en annars staðar. Á því er enginn efi. Það er þetta, er sett hefir einkennilegan kæruleysis blæ á lífið þar; þó siðferðisöflin hafi verið þar starfandi í kyrrþey og alvöru, hafa þau síður náð tökum þar á lífinu en víðast hvar annars staðar.

En óhætt er að fullyrða það, að þetta er alt breytingum að taka til batnaðar. Óreglan er að minka, eftirlitið að vaxa, spilamenska og svall ekki nærri eins alment, ósiðsemin að hörfa út í yztu hverfin. Það orð lék eitt sinn mjög á um landa vora þar, að þeir spiluðu mikið og eyddu til þess tíma sínum. Mér til mikils fagnaðar

heyrði eg, að nú er miklu minna að því gjört, og sá blettur að hverfa.

Hvernig líður löndum vorum vestur við haf og hvernig komast þeir af? Sú spurning mætir manni hvarvetna, enda er hún næsta eðlileg. Eg reyndi að veita þessu eftirtekt eftir föngum og átti tal um það við gætna menn og óvilhalla. Og niðurstaðan, sem eg komst að, varð þessi: Efnalega hafa Íslendingar ekki grætt á að fara vestur. Fyrir fátæka menn er þar öllu örðugra áfram að komast en hér á aðal-stöðvum Íslendinga í miðju landi. Í bæjunum eru óheyrilega margir um vinnuna, svo æfinlega verða einhverir að sitja á hakanum. Það er líka eins og kappið og metnaðurinn með að komast áfram efnalega hjaðni niður hjá öllum fjöldanum við að koma vestur. Hinu milda loftslagi er þar sjálfsagt nokkuð um að kenna. Súldin og sagginn slekkur metnaðinn ósjálfrátt niður. Svo eru örðugleikarnir miklir, einkum að því, er alla jarðrækt snertir. Sem bændur hafa Íslendingar langbezt komið ár sinni fyrir borð í landi þessu. Þeir standa þar engum á baki. Enda er það eðlilegt, þar sem þeir eru bændaþjóð og kunna lítt til annarra starfa. En En fyrir fátæka menn og efnalausa er búskapur á landi þar vestra svo miklum örðugleikum háður, að naumast er unt að komast yfir nokkur efni með því að stunda hann. Til þess að lifa og framfleyta fjölskyldu getur hann verið nokkur stuðningur, en naumast með öðru móti en að sinna daglaunavinnu með fram að töluverðu leyti. Bæði er landið í verði afarháu og efnalitlum mönnum því ókleyft að komast yfir nema lítinn blett, og svo örðugt að ryðja land og yrkja, að það er kröftum hvers eins manns

ofvaxið, svo að nokkuð verulegt verði ágengt. Grasrækt sýnist einna bezt borga sig, því hey er í háu verði og mikil eftirspurn eftir því. En það þarf býsna stóran akur, til þess eftirtekjan verði mikil. Aldinarækt kunna Íslendingar lítið að, enda er hún vandasöm mjög, og lítið upp úr henni að hafa, því aldini eru þar í mjög lágu verði; að eins einstöku maður í grend við stóran bæ getur haft nokkuð upp úr henni með því að aka í kring og hafa á boðstólum, líkt og garðávexti. Auðvitað má reka aldinarækt í stórum stíl með ágóða miklum, en til þess þarf mikið fé, vatnsveitingar og heilmikið vinnuafl.

Sannfæring mín er sú, að engum fátækum manni sé til þess ráðandi að flytja vestur á Kyrrahafsströnd til þess að komast þar betur áfram en á miðbiki landsins. Íslendingar með tvær hendur tómar standa þar svo illa að vígi, að efunarmál getur verið, hvort þeir, er þangað eru komnir, hafast þar við til langframa. Fjöldinn af þeim finnur til þess, að þeim verður lítið úr tímanum, að efnaleg framför er lítil, að framtíðarhorfurnar gefa eiginlega enga von um neina verulega breytingu á þessu til batnaðar. Þó telja megi víst, að hún verði, er hún svo hægfara, að fátækum einstaklingum er of langt eftir henni að bíða. Börnin sín eru líka margir hræddir um, að láta þau alast upp með eiginlega enga framtíð í vændum. Enda er hin upprennandi kynslóð næsta metnaðarlítil og áhugadauf. Það er eins og hún hafi ekkert land fram undan sér, er hana langi til að nema. Og þá vilja árin eyðast í sinnulausu gjálífi, af því lífið vantar markmið og stefnu.

En svo eru margir vestur komnir heilsu sinnar vegna. Heilsan er fyrir öllu og er það von, að hver leiti

þangað, sem hann hyggur henni bezt borgið. Ég spurði fjölda manna, hver áhrif loftslagsbreytingin hefði haft á heilsufar þeirra. Nokkurir kváðust vera við betri heilsu, aðrir sögðu heilsu sína lakari þar en austur frá, en langflestir sögðust ekki geta sagt, að þeir fyndu neinn mun á heilsu sinni. Það er því hæpið að gjöra sér mjög glæsilegar vonir í þessu efni. Að sönnu reynist það bót í einstöku tilfellum, en hin miklu fleiri, sem það reynist að litlu liði eða engu, og þá oft að eins í bili.

Öllum sanngjörnum mönnum, er eg átti tal við, kom saman um þetta: Hingað er ekkert að sækja nema veðursældina og fyrir engu öðru að gangast. Auðvitað er hún miklu meiri þar vestra, þó rigningarnar að vetrinum geti verið næsta þreytandi. Og víst er um það, að því loftslagi, sem þar er, munu fylgja kvillar jafn-margir og eiga sér stað, þar sem kaldara er á vetrum. Þó veðursældin sé dýrmæt,þarf maðurinn þó ávalt á ýmsu fleira að halda til þess að vera sæll og láta sér vel líða.

Félagsskapur hefir lítill verið með Íslendingum þar vestur enn sem komið er og hefir hér að framan verið bent á hið helzta í þá átt. Dreifingin er svo mikil, fyrst og fremst að því, er bústaði manna snertir, en þar næst líka í hugarfari manna, eins og gengur. Ballard og Blaine eru aðal-aðsetur Íslendinga þar nú sem stendur, en strjálingur er af íslenzku fólki hér og hvar með ströndinni. En mjög er það undir hælinn lagt, hvort þeir haldast við á þessum stöðum, því enn hafa þeir svo sem engar rætur fest í mannfélaginu á hvorugum staðnum. Enda eru menn á einlægu flökti fram og aftur með ströndinni og eiga örðugt með að finna varanlegan samastað. Bezt gæti eg trúað því, að það lægi fyrir æði-mörgu því ísl.

fólki, sem þangað er komið, að hverfa austur aftur og helzt að nema lönd einhvers staðar í Norðvesturlandinu. Og ekki fæ eg annað séð, en að það sé í efnalegu tilliti miklu affarasælla yfirleitt, enda líklegra með því móti, að Íslendingar fái haldið saman félagslega.

Mjög var mörgum þar vestur það mikið áhugamál, að eitthvert verulegt lag gæti þar komist á með Íslendingum í kristilegu tilliti. Hugsa þeir menn allir til kirkjufélagsins í þeim efnum og líta til þess að sjá um, að sú lagfæring komist á. Reynslan hefir opnað augu skynbærra manna fyrir því, að íslenzkir söfnuðir, sem hér myndast, fái því að eins haldist við, að þeir standi í sambandi við kirkjufélagið. Eg fullvissaði alla um, að kirkjufélagið hefði opin augu fyrir þörfinni og mundi leitast við að senda hæfan mann vestur eins fljótt og unt væri. Eins og nú er ástatt er maðurinn því miður ekki til. En hann kemur með tímanum, á því er enginn efi, og ef til vill von bráðar. Sumir halda því fram, að það sé ekki til nokkurs hlutar. Allur fjöldinn þar vilji engum kristindómi sinna og margir séu ákveðnir prestahatarar. En eg styrktist í þeirri sannfæring við komu mína vestur, að það er ekkert ómögulegra, að fá menn til að sinna kristindóminum þar vestur frá en annars staðar, þar sem Íslendingar hafa tekið sér bólfestu. Skilyrðið fyrir því, að það geti tekist, er fyrst og fremst það, að bygðin festist á ákveðnum stöðum og menn hætti að hvarfla fram og aftur eða fara úr einum stað í annan. Þar næst það, að einhver góður maður og vel hæfur fengist til að gjörast þar prestur og styðja að alls konar andlegum þrifum meðal fólksins. Það þarf að vera ötull maður og einlægur, með hógværa lund og þolinmóða, með að-

dráttarafl kærleikans i sálu sinni og mikið af mælsku og hreinskilni trúarinnar.

Aftur er það vonlaust verk fyrir hvern þann, sem sjálfur ber dreifingaröflin í sálu sinni og látið hefir þau fá vald yfir hjarta sínu og lífsstefnu. Þeim manni verður aldrei neitt ágengt með að draga hugi manna saman utan um fagnaðarboðskapinn, sem ekki er algjörlega einlægur í öllum viðskiftum við mennina og afskiftum sínum af málum þeirra. Það liggur í augum uppi, að í öðru eins mannfélagi megi ekki flekkir vera,opinberir og augljósir, á lífsbreytni þeirra manna, er ætla sér að starfa í víngarði drottins. Þeir mega eigi þjóna þeirri lund, sem ávalt aflar sér fleiri óvina en vina, þar sem þeir eru, heldur þeirri hógværu lærisveinslund, er gleymir mótgjörðum og gengur með sáttaboð á milli þeirra, er andvígir kunna að hafa verið.

Eg sneri heimleiðis aftur með þá sannfæring í huga, að svo framarlega sem íslenzkar bygðir héldust á ströndinni, mundi drottinn senda réttan mann á réttum tíma.

Áður en við hurfum austur aftur, var okkur samferðamanni mínum og mér samsæti haldið af Ballardbúum, bæði myndarlegt og ánægjulegt í alla staði. Þar hafði eg þá ánægju að sitja við hlið fyrveranda embættisbróður míns, Jónasar Sigurðssonar, sem mælti fyrir minni heiðursgestanna. Gaf hann í skyn, að ekki væri nú alt með feldu með mig framar en suma aðra. Bæði þætti eg nú nokkuð frjálslyndur upp á síðkastið og svo þjónaði eg jafnvel söfnuði, sem stæði fyrir utan kirkjufélagið. Frjálslyndið sagði eg honum, að bezt væri að láta liggja milli hluta, en ánægður væri eg, ef allir söfnuðir, sem væru fyrir utan kirkjufélagið, væru á eins vissri leið inn

í það og sá litli söfnuður, er eg þjónaði. Eg stóð upp frá samsæti þessu með þá einlægu ósk í huga, sem eg hefi þar ávalt borið síðan við skildum hér austur frá, og við samverkamenn hans allir, að hann ætti eftir að komast á rétta hillu í lífinu, koma fótum fyrir sig aftur og fá að njóta þeirra góðu hæfileika, sem honum hafa gefnir verið. Vér eigum svo fátt af sönnum hæfileika-mönnum, að það er sárt til þess að vita, að nokkur þeirra sé að reyna að vera eitthvað annað en hann ætti að vera, því á þann hátt er svo hætt við, að alt fari forgörðum. Eg er sannfærður um, að hér austur frá er fjöldi manna, er óskar honum alls hins bezta, og þeirra flokk má hann vera viss um að eg vil ávalt fylla.

Svo er þá sagan á enda.

Eg er viss um, að farfuglarnir eru lúnir og laraðir, þegar þeir koma heim til sín úr æfintýra ferð sinni á sumrin. En svo geyma þeir í huga sínum heilt myndasafn af æfintýrunum öllum, er á dagana hafa drifið. Og þetta myndasafn er þeim hinn dýrmætasti fjársjóður, er eigi væri unt að kaupa fyrir alla auðlegð Austurlanda, og yfir honum gleyma þeir lúanum.

Eg var þreyttur eins og farfuglarnir, þegar eg kom heim. En hugurinn var fullur af endurminningum og ógleymanlegum myndum úr mannlífinu og ríki náttúrunnar, sem munu fylgja mér til daganna enda. Fyrir þær er eg mönnunum og mannanna föður óumræðilega þakklátur.

Hjá slíkum myndum væri öll auðlegð Austurlanda eins og hégómi.

---



# RÁÐHERRASTJÓRNIN Á ÍSLANDI.

## HANNES HAFSTEIN
og ráðaneyti hans.

Mikil umbrot og merkileg hafa átt sér stað í stjórnmálum þjóðar vorrar á ættjörðinni um langan tíma undanfarinn. Að sönnu er nú stjórnarbótarþrefið gamalt orðið og nokkuð þreytandi. Virðist það helzt vera svo búið að ná haldi á huga þjóðar vorrar, að fátt eða ekkert annað komis þar að. Hingað til er það nokkurn veg-


HANNES HAFSTEIN

inn eina ágreiningsefnið, sem þjóð vor hefir fengist til að gefa nokkurn verulegan gaum. Að smekkur hennar

skuli svo einhæfur vera, er víst fáum hugsandi mönnum til fagnaðar.

Á hinn bóginn er það framför allmikil frá þeim tímum, er sjálfsstæðisþráin var sofandi með þjóðinni og allri áhyggju varpað upp á Dani. Ósjaldan er nú aftur jafn-langt í hina áttina gengið. Íslenzkum áhuga er býsna gjarnt til að vera annað hvort í ökla eða eyra. Samt sem áður álítum vér það fagnaðarefni öllum þeim, er þjóð vorri unna, að svo mikið hefir unnist í sjálfsstæðisáttina nú á þessum síðustu tímum.

Árið 1904 mun ávalt verða talið merkisár í sögu þjóðar vorrar. Samkvæmt lögum frá alþingi, er konungur hafði samþykt, var þá sérstakur ráðherra skipaður fyrir landið,og skyldu þrír menn sitja í ráðaneyti hans, Eins og kunnugt er, höfðu íslenzk mál áður heyrt undir dómsmálaráðgjafann danska, mann gagnókunnan mönnum og málefnum, þjóðháttum og lífsskilyrðum á Íslandi; enda hafði hann svo sem að sjálfsögðu haft þau í hjáverkum. Samvinna hafði engin verið með stjórn og þjóð, engin framfaramál lögð fyrir þing af stjórnarinnar hálfu, en þingið sjálft látið klöngrast gegn um ófærurnar eins og bezt það mátti. Og svo þegar einhver áríðandi framfaralöggjöf hafði öðlast fylgi meirahluta þings og var afgreidd til Danmerkur, var henni vanalega synjað um staðfesting. Því miður sýndist stjórninni ekki um það hugað að flýta fyrir framförunum, heldur miklu fremur hitt að tefja fyrir þeim, af því hún hafði sjálf litla trú á þeim, og vildi helzt láta sem flest sitja við sinn gamla keip.

Þrátt fyrir þetta hefir þó margt til batnaðar breyzt síðan þjóðhátíðarárið 1874, þegar þingið öðlaðist fjárforræði. Á þeim tíma hafa samgöngumál landsins þok-

ast svo í lag, að fífldirfska mundi áður hafa þótt að eiga von á slíku. Millilanda-samgöngur hafa margfaldast. Nú fara póstskipin dönsku nærri tuttugu ferðir á ári til landsins, auk annarra gufuskipa, er kring um landið ganga, eða til Skotlands og Danmerkur. Þjóðvegir hafa lagðir verið víða um landið með ærnum kostnaði og margar brýr bygðar yfir vatnsföll, er áður voru til farartálma óskaplegs.

En þegar þetta hefir nefnt verið, er einnig flest upp talið. Að sönnu hefir ofurlítið verið átt við mentamál þjóðarinnar, en af huga svo hálfum og fálmandi, að oss finst það óunnið ætlunarverk enn. Sjávarútvegurinn hefir aukist og þokast í tímabærra horf en áður. En svo hefir landbúnaðinum að sama skapi hnignað, svo nokkurt efunarmál mun það vera, hvort atvinnuvegir landsins eru yfirleitt í betra lagi. Nýja stjórnin hefir því sannarlega nóg ætlunarverk fyrir hendi.

Eftir þrjátíu ára baráttu á ný hefir nú annar dálítill sigur unnist. Með hinni nýju stjórnarskrárbreyting hefir þingræðið verið leitt í lög. Hér eftir á æðsta stjórn landsins einungis að vera í höndum þess manns, er eindregið fylgi hefir meirahluta þingsins. Þegar sá meirihluti verður undir á þingi,hlýtur hann að þoka úr sessi. Með þessu móti hefir þjóðin það á eigin valdi, að fela þeim mönnum mál sín, er hún bezt treystir og leggja þeim einum stjórnartaumana í hendur. Þegar henni sýnist knerrinum beint í öfuga átt, rekur hún þann frá, er við stjórnvölinn stendur í það skiftið, og skipar þar öðrum.

Þar næst er þetta: Hin nýja stjórn á heima í landinu sjálfu. Þeir, er hana skipa, ættu allir að vera gagn-

kunnugir háttum lands og þörfum. Þeir ættu að standa eins vel að vígi og unt er með að sjá, hvað helzt muni horfa til bóta í hverju efni og hvað ráða mætti fram úr til viðreisnar landi og lýð. Hin nýja stjórn er rétt undir handarjaðri þingsins og ætti því samvinnan á milli hennar og þess að geta orðið hin bezta. Og enn er það henni til ágætis að telja, að verkefnum hefir miklu haganlegar verið niðurskift nú en áður, þar sem belgurinn var einn og öllu í hann slengt í einni bendu.

Öllum landsmálum hefir nú skipað verið í þrjár deildir og sín skrifstofan sett fyrir hverja. Fyrst er kenslumála og dómsmálaskrifstofa. Þar næst er atvinnu og samgöngumálaskrifstofa. Og í þriðja lagi fjármála og endurskoðunarskrifstofa. En öll stjórnarstörfin ætluð tólf manns. Þegar þess er gætt, að hér er um þjóð að ræða, er að eins hefir svo sem áttatíu þúsund sálir fram að telja, ætti stjórn með þessu fyrirkomulagi og verkaskifting og þeim mannafla, sem hér er á að skipa, að geta orðið betur af hendi leyst en í nokkuru öðru landi í heiminum. En dýr hlýtur hún að verða fyrir jafn-fátæka þjóð. Svo vel má hún samt sem áður ætlunarverk sitt af hendi leysa, að mikill verði ávinningurinn. Enginn deyr þó dýrt kaupi.

Sá maður, sem fyrstum allra Íslendinga hefir skipað verið í ráðgjafasess, er eins og kunnugt er *Hannes Hafstein,* áður bæjarfógeti og sýslumaður á Ísafirði. Kunnastur er hann þjóð vorri fyrir skáldskap sinn. Ekkert hinna yngri skálda vorra hefir ef til vill eins komist inn í hjarta þjóðar vorrar með skáldskap sínum og Hannes Hafstein. En ljóð hans heyra því sem næst öll æskuárunum til. Em-

bættismaðurinn virðist hafa borið skáldið ofurliði. Í stjórnmálabaráttu landsins hefir hann tekið fremur lítinn þátt, fyrr en nú allra síðast. Þegar nú sá flokkur, er hann fylgdi á þingi, varð ofan á, þótti hann þar bezt til foringja fallinn. Enda efumst vér ekki um, að svo hafi verið. Hannes Hafstein er einn hinn mesti glæsimaður þjóðar vorrar, þeirra, er nú eru uppi. Hann er sagður ræðumaður ágætur og vel til þess fallinn að halda svörum uppi. Hann fær orð fyrir að vera lipur maður og ráðkænn þegar á þarf að halda, enda virðist oss frammistaða hans í Kaupmannahöfn fyrir flokksins hönd bera með sér, að hann hafi þessa hæfileika stjórnmálamannsins i all-ríflegum mæli. Hann er líka prúðmenni hið mesta og kann eflaust eitthvað af þeirri list, að heilla þá hugsvinnsmálum, er hann á tal við. Ættjarðarvinur er hann sjálfsagt einlægur og trúandi er honum til að hafa bezta vilja á að verða fósturjörð sinni að liði.

Öfundisverður er hann naumast af stöðu sinni. Fyrst og fremst er það ekki neinum heigli hent að koma af stað miklum byltingum til umbóta á skömmum tíma í lífskjörum þjóðar vorrar. Hve mikill sem maðurinn væri, sem skipað hefði verið í fyrsta ráðherrasess Íslands, mundu vonbrigðin ávalt hafa mikil orðið. Finst oss þess vegna, að eiginlega megi sá flokkurinn, er undir varð, telja sig heppinn. Þar næst er Hannes Hafstein ekki öfundisverður vegna þess, hve flokkur andstæðinga hans er harðsnúinn og vel mönnum skipaður. Hann er nú úti í stormi svo hörðum, að hann hefir naumast haft hugmynd um annað eins veður, þegar hann orti forðum formálann fyrir „Verðandi", kvæðið sitt karlmannlega um storminn. Þykir það að sönnu heilnæmt hverri

stjórn, að eiga öflugan andstæðingaflokk, er vakir yfir orðum hennar og athöfnum. Ef ekki er með því móti reynt að gjöra sitt hið bezta og samvizkusamlega starfað í hverju efni, verður það vart með öðru. Ætti það gjöra alvörumann úr hverjum, er um alvöruskort kann að hafa verið brugðið. En svo getur stormurinn stríður orðið, að jafnvel hið mesta karlmenni kæri sig ekki um úti í honum lengur að vera.

Næstur ráðherranum stendur landritarinn og hefir *Klemens Jónsson*, áður bæjarfógeti og sýslumaður á Akureyri, það embætti á hendi. Það er myndarmaður hinn mesti og þótti allmikið að honum kveða sem sýslumanni í Eyjafjarðarsýslu. Flokksmaður er hann ekki neitt sérlega ákafur og stóð hinum flokknum býsna nærri áður en nýja stjórnin komst á laggirnar. Til hans mun vera borin tiltrú eins mikil og nokkurs annars í nýju stjórninni eða meiri. Því hann er víst fremur gætinn maður, sanngjarn og réttlátur og ekki líklegur til að láta leiðast af flokksfylgi eingöngu. Hann er sonur Jóns Borgfirðings, öldungsins bókfróða og alkunna, en bróðir



KLEMENS J NSSON.

Finns Jónssonar, doktors og prófessors við háskólann í Kaupmannahöfn.

Undir þessum tveim mönnum standa stjórnardeildirnar þrjár. *Jón Magnússon* er skrifstofustjóri í kenslu- og dómsmáladeildinni. Hann var áður sýslumaður í Vestmannaeyjum og síðar landritari. Er hann sonur síra Magnúss Jónssonar í Laufási, hægur maður og stiltur og hvers manns hugljúfi sagður. Aðstoðarmaður hans í deildinni er sonur Lárusar háyfirdómara, Guðmundur kandídat Sveinbjörnsson, en skrifari Þórður kand. phil., sonur Jens Sigurðssonar, rektors.



JÓN MAGNÚSSON.

Í deild atvinnu og samgöngumála er skrifstofustjóri *Jón Hermannsson*, kandidat í lögfræði, sonur Hermanns fyrrum sýslumanns í Rangárvallasýslu. Hann er kornungur maður, fæddur 1873, og þjóð vorri enn alls eigi að neinu kunnur, enda hlýtur hann sjálfur að vera mörgu ókunnur á fósturjörð sinni. En gjörfilegur maður er

hann og þeim mun líkari til þess að vilja sér eitthvað til frama vinna, sem hann er yngri. Engir menn eru sannfærðari um það en íslenzkir námsmenn í Kaupmannahöfn, að alt megi endurskapa á fósturjörð vorri, og er þá gott að þeir fái að reyna sig á því sem fyrst. Aðstoðarmaður hans í deildinni er kandídat Eggert Claesen, kaupmanns á Sauðárkróki og dóttursonur Eggerts Briem, sýslum.



JÓN HERMANNSSON.

Í deild fjármála og endurskoðunar er skrifstofustjóri *Eggert Briem*, sýslumaður í Skagafjarðarsýslu, og bróðir Páls Briem,amtmanns, hæfileikamaður hinn mesti, eins og frændur hans, og maður mjög vel látinn. Hann er fæddur árið 1867, svo hann er milli þrítugs og fertugs, og þess vegna ungur og ótrauður í hvívetna. Í þessari deild er Indriði Einarsson, leikritaskáldið og endurskoðandi landsreikninganna til margra ára, fulltrúi, en aðstoðarmaður Jón Sveinbjörnsson, háyfirdómara.

Ýmsir kunna að furða sig á því, hve ungum mönnum og að mörgu leyti lítt reyndum hefir verið á hendur falin stjórn landsins. Aftur má einmitt frá öðru sjónar-

miði telja stjórninni það til gildis, að í henni sitja ungir menn og ötulir, sem líklegir til að taka í taumana með fjöri og áræði, er eldri menn oft og tíðum brestur. En alt er það undir aðgjörðum hennar komið, hvort hún vinnur sér hylli landsmanna og nær trausti þeirra fullkomnu; eru horfurnar því miður ekki eins vænlegar í þá átt nú sem stendur og vera mætti. Óskum vér þess samt af heilum hug, að hún beri gæfu til, að hrinda málum lands og þjóðar í heillavænlegt horf að einhverju leyti. Nægan tíma ætti að gefa henni til að sýna, hverju hún ætlar sér til leiðar að koma og að hve miklu leyti málum landsins er borgið í hendi hennar. En ekki má hún kippa sér upp við,þótt verk hennar verði gagnrýnd og í alls konar sjónaukum skoðuð, því gagnrýnin er nú eitt sinn tízka í heiminum.



EGGERT BRIEM.

Í stjórnmálabaráttu Íslands er það ef til vill eitt stærsta sporið til framfara, að flokkarnir eru tveir orðnir, er keppa um völdin, eins og hvarvetna annars staðar. Reyndar er sá gallinn á, að stefnumunurinn er svo sem

enginn, eftir því er séð verður héðan úr fjarlægðinni. Það sem flokkunum ber á milli virðist ekki vera ólík skoðun á landsmálum; hún er nokurn veginn sú sama hjá þeim báðum, því framfaramenn vilja eiginlega allir Íslendingar vera. Það sem á milli ber er því helzt þetta: hverir eiga að sitja í valdasessinum, eða hvaða mönnum er bezt til þess trúandi að stjórna landinu. Þótt þetta kunni nú öfugt að virðast og nærri því broslegt, skulum vér að því gæta, að stjórnmálabaráttan í heiminum er einmitt æði-víða í þessu fólgin. Víða í löndunum keppast flokkarnir við að verða hver öðrum fyrri til að hrifsa framfaramálin inn á stefnuskrá sína, til þess ekki að verða undir í áliti þjóðarinnar. Ágreiningurinn verður þá allur út af því, *hvaða menn* eigi að vera við völdin.

En þetta, að öflugur andstæðinga-flokkur vakir yfir þeirri stjórn, er að völdum situr, og færir sér hvert glappaskot hennar í nyt til að steypa henni, sýnist þó vera bezta ráðið, sem mönnum hefir enn getað hugkvæmst, til þess að fá stjórnir þjóðanna til að inna störf sín samvizkusamlega og vel af hendi, — til heilla fyrir land og lýð.

Og til þess vonum vér, að þingræðið verði þjóð vorri.

*F. J. B.*





# SAFN
## TIL LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA I VESTURHEIMI.

---

### Saga íslenzku nýlendunnar í bænum Winnipeg.

EFTIR SÍRA FRIÐRIK J. BERGMANN.

---

33. FÉLAGSSKAPUR Í BÓKMENTA ÁTT.

Eins og eðlilegt var, átti ekki bókmentalegt líf sér að neinu leyti stað fyrst framan af með Íslendingum í Winnipeg. Frumbýlingarnir hafa um annað að hugsa, enda voru fáir menn eða engir með þeim, er skólamentun höfðu fengið. En veturinn 1882 til 1883 var þar ungur Íslendingur, er verið hafði við nám um nokkurn tíma austur í Pennsylvania-ríki í bæ þeim, er Greenville nefnist. Það var Björn S. Brynjúlfsson, sonur Brynjúlfs Brynjúlfssonar frá Skeggstöðum í Húnavatnssýslu, og bróðir þeirra Skafta og Magnúss Brynjúlfssona, sem getið er í sögu ísl bygðarinnar í Norður-Dakota. Hafði hann dvalið við nám á skóla einum lúterskum, er *Thiel College* nefnist. Hann

gekst fyrir því þenna vetur, að hér væri stofnað dálítið félag í bókmentalegu augnamiði, í líking við það, er ungir námsmenn eru vanir að hafa með sér á skólum. Mun flest hafa farið þar fram á ensku, því hann var eðlilega betur að sér í enskri tungu en íslenzkri. Nefndist félagið því ensku nafni og kallaðist „*The Oriental Literary Society,*“ ekki vegna þess að meðlimir þess ætluðu einkum austurlenzk vísindi fyrir sig að leggja, heldur hins, að sólin er í austri og upplýsir heim allan og vermir ljósi og hita. Eins ætlaði félag þetta að vera ofurlítil sól, er ræki myrkur mentunarleysisins á flótta og færði mönnum ljós þekkingar og hita mentunarinnar. Voru einkunnarorð þess á latínu: *per gradus*—fet fyrir fet, svo enginn skyldi hugsa að þeir ætluðu sér að gjöra alt í einu. Félag þetta mun hafa haldið fundi sína fyrir lokuðum dyrum. Lítur út fyrir, að það hafi verið lagt út á ýmsan veg og stundum miður góðgjarnan. Voru ýmsir svo djarfir að kalla það af þessari ástæðu leynifélag eða frímúrarafélag; jafnvel galdrafélag höfðu sumir leyft sér að nefna það, og hafa þeir að líkindum álitið helzta ætlunarverk þess að leggja stund á egipzka speki, er lengi hefir álitin verið nokkurn veginn hiðsama og kukl. Auðvitað var þetta alt í gamni, en „ófrjálslegt“ mun það þótt hafa eftir þeirrar tíðar skilningi á frelsinu, að félag þetta skyldi ekki leyfa öllum aðgang að fundum sínum. Ekki hafa félagsmenn þurft að taka sér þetta nærri. En til þess að seðja forvitni almennings hélt það opinberan fund, og var öllum boðið þangað að koma, er vildu. Voru þar ræður fluttar af ýmsum, en Jón Runólfsson, skáldið,

fekk það hlutverk að gjöra grein fyrir æt unarverki félagsins og markmiði og hrekja þá hleypidóma, er upp höfðu risið. Mun þá öllum hafa ljóst orðið, að galdurinn var ekki hræðilegur og tilgangurinn lofsverður. Var fundur þessi haldinn 12. maí 1883 og þótti hann hin bezta skemtun. Ekki sést neins staðar getið um frekari aðgjörðir félags þessa og mun það að líkindum að eins hafa staðið þenna vetur og fremur verið til að glæða áhugann fyrir góðum bókum og lestri þeirra, heldur en hitt.

## 34. Frá Frímanni Anderson.

Maður er nefndur Frímann B. Anderson og er hans þegar áður getið. (Almanak 1904 bls. 88). Hann var sonur Bjarna á Vöglum á Þelamörk, Arngrímssonar, prests að Bægisá. Hann hafði stundað nám um nokkur ár austur í Ontario-fylki og var nú sá af Íslendingum í Winnipeg, er langmestrar mentunar hafði aflað sér hér í landi. Meðan hann var austur frá, tók hann að rita heilmikið í blaðið *Leif*, enda kunni hann íslenzku dálítið betur en alment gjörðist, því hann hafði fengið nokkura mentun á Íslandi áður hann fór vestur, svo hann að líkindum hefði fengið inntöku í annan bekk latínuskólans. Þegar í sjötta tölublaðinu ávarpar hann landa sína (Ávarp til landa minna 15. og 22. júní 1883) og er sú grein rituð í bænum Hamilton í Ontario-fylki. Annað ávarp ritaði hann skömmu síðar, þar sem hann var að gjöra grein fyrir námsgreinum og kenslu á skólunum þar austur frá. Í septembermánuði 1883 ritar hann all-langa ritgjörð, er hann nefnir: Lítið eitt um stjórn

Kanada-veldis og stendur hún í fjórum blöðum. Í apríl vorið 1884 stendur aftur löng ritgjörð eftir hann um mentun. Nokkuð þóttu ritgjörðir þessar á víð og dreif og ekki eins mikið á þeim að græða og mátt hefði. Samt féllu mörgum þær mjög vel í geð og álitu, að þar mundu Vestur-Íslendingar von eiga eins hins mikilhæfasta mentamanns. Enda fylgdi það frumbýlingslífinu að gjöra sér vonir ákaflega miklar um alla hluti. Hann mun hafa komið til Winnipeg frá borginni Toronto í júnímánuði sumarið 1884. Auglýsir ritstjóri Leifs þegar, að hann sé kominn til bæjarins og ætli að flytja fyrirlestra um ýms mentandi efni og mikils varðandi í húsi Framfarafélagsins, og verði fyrsti fyrirlesturinn fluttur þar 21. júní; aðgangurinn kosti 25 cts. Er skorað á alla Íslendinga að sækja fyrirlestra þessa sem bezt, því hér sé um mentaðasta Íslendinginn að ræða, er nú sé uppi með Vestur-Íslendingum og ef til vill þó lengra sé leitað. Ekki er neitt um það getið, um hvaða efni fyrirlestur þessi eigi að vera, né heldur er þess getið eftir að hann hafði fluttur verið. En að líkindum hefir hann verið um mentun og framfarir Íslendinga í Ameríku. Um það efni ritar hann greinarstúf í næsta tölublað Leifs. Þar hreyfir hann skólahugmyndinni fyrst. Vill hann, að Íslendingar þegar fari að hugsa um að koma sér upp æðri mentastofnun, þar sem íslenzk ungmenni, er ætli sér að ganga mentunar og embættisveginn, geti stundað nám. Skólahúsi hæfilegu álítur hann að hægt sé upp að koma fyrir svo sem tólf til fimtán hundruð dollara og muni þar nægilegt rúm handa 100—150 námsmönnum. Ekki álítur hann að þurfi

nema tvo kennara og hugsar hann sér árslaun þeirra beggja ekki hærri en 1400–1500 dollara, en öll útgjöld við stofnunina að eins 1500–1600 dollara á ári. Auðvitað hugsar hann sér þetta að eins sem byrjun, er átt geti vöxt og viðgang fyrir hendi, ef svo vill verkast. Til þess að hafa saman fé þetta, vill hann láta leggja skólaskatt sérstakan á hvern íslenzkan borgara, sem hann er þó hræddur um að kunni að verða óvinsælt nokkuð. Annað ráð sé, að láta nemendur greiða skólagjald og ætlar hann, að tekjur skólans með því móti gætu orðið 1500–2000 dollara, en kenslugjaldið þó að eins 15 dollara fyrir hvern mann. Þriðja ráðið sé, að stofna skólasjóð, er beri kostnaðinn. Telst honum svo til, að þá séu 5000 Íslendingar fluttir vestur hingað. Vill hann, að hver þeirra leggi einn dollar í sjóð í þrjú ár, vill svo láta setja sjóð þann á vöxtu og láta þá verða nóga til að bera kostnaðinn. Vill hann að Íslendingar byrji þegar á fyrirtæki þessu á þjóðhátíð Bandaríkjanna 4. júlí, eða svo sem að vikuliðinni.

Fyrsta júlí var opinber fundur haldinn í húsi Framfarafélagsins til að ræða um ,,mentunarástand Íslendinga í Vesturheimi". Var fundarstjóri Magnús Pálsson, en skrifari Baldvin Baldvinsson. Skýrði forseti frá tilgangi fundarins og sýndi fram á, ,,hve nauðsynlegt væri fyrir oss Íslendinga að eiga eina sameiginlega mentastofnun hér í Vesturheimi, þar sem vér jafnframt því að stunda enskar bókmentir, gætum átt kost á að halda tungu vorri og íslenzkum bókmentum." Þar næst hélt F. B. Anderson frá Toronto all-langa tölu og sýndi fundinum fram á, hve nauðsyn-

leg bókleg þekking er, og að hún væri fyrsta spor til allra sannra framfara." Fleiri tóku þátt í umræðum þessum og kom öllum saman um, að mentunar skortur stæði Íslendingum í landi þessu mjög fyrir þrifum og þess vegna væri þörfin fyrir slíka stofnun næsta brýn. Bað þá forseti fundinn greiða atkvæði um, hvort það væri vilji manna eindreginn að koma á fót mentastofnun íslenzkri hér vestan hafs, er sameiginleg eign yrði allra Íslendinga í Vesturheimi. Var það í einu hljóði í ljós látið af fundinum með atkvæðagreiðslu. Að því búnu var níu manna nefnd kosin til að hafa á hendi allar framkvæmdir í málinu til næsta nýárs á þann hátt, er bezt gengdi.

Þegar skólamálið var komið í þetta horf, hélt Frímann Anderson áfram að flytja fyrirlestra sína. Var sá næsti um náttúruvísindi, listir og trú, en átti þó einkum að gjöra grein fyrir þeim uppgötvunum, er gjörðar hefðu verið á síðustu tímum í jarðfræði, efnafræði og líffræði. Þriðji fyrirlesturinn var um heimspeki og fríhugsun.

Um fyrirlestrana og fyrirlesarann var mjög tíðrætt um þessar mundir, ekki sízt vegna skólamálsins. Hefir víst mörgum þótt nokkuð geist farið bæði í einu og öðru og ekki var laust við, að væri farið að henda gaman að. Var nú farið að rita töluvert um málið í Leif og voru menn ekki á eitt sáttir eins og gengur. Töldu sumir máli þessu alt til foráttu og álitu að íslenzkan yrði einungis til ills eins fyrir ísl. nemendur við slíka stofnan. Með hana hefði enginn neitt að gjöra, þegar hingað væri komið. Aftur mæltu þeir

mjög skynsamlega með málinu fyrir hönd nefndarinnar Sigurður J. Jóhannesson og Magnús Pálsson og sýndu fram á, hve fjarstæður hugsunarháttur það væri fyrir Íslendinga að hafa á móti námi sinnar eigin ungu. Vild u þeir, að sjóður væri myndaður í þessu augnamiði og álitu, að hann ætti að vera svo sem 15,000 doll. að minsta kosti. Vextir voru hér þá alment 10 af hundraði og héldu menn, að þær mundu fara langt til að fleyta skólanum.

Samt sem áður voru þeir víst margir, er tóku nokkuð djarflega í strenginn á móti skólahugmynd þessari. Í þeirra tölu var Sigurbjörn Stefánsson. Virðist hann þegar í fyrstu hafa litla trú haft á Frímanni Anderson og framfaramálum hans og ritaði allsvæsið gegn honum. Varð út af honum hviða heilmikil í Leifi, sem auðséð er, að hann hefir sjálfur tekið sér all-nærri, því hann hefir við orð að fara sem fyrst austur aftur og reyna ekki til að efla mentunarfýsn Íslendinga frekar en hann hafði þegar gjört, úr því hann hefði mætt mótspyrnu svo mikilli. Fór fyrir honum eins og mörgum ungum mönnum, að hann var fjörugur á sprettinum, en of viðkvæmur í lund og staðlítill til þess að þola andmæli og mótblástur. Ekki varð samt neitt af austurför hans, en nú var farið að henda því á milli sín, að hann langaði til að ná í Leif og verða ritstjóri hans, og sýnist Helgi Jónsson hafa tekið sér það all-nærri. Enda vissi hann, að óánægjan með blaðið var býsna almenn. Það kvað svo ramt að, að talað var um að rita stjórninni í Ottawa, sem keypti nokkur eintök af blaðinu til útbýt-

ingar á Íslandi og mæla móti því, að hún héldi því áfram, þar sem blaðið væri svo illa úr garði gjört. Í 22. tölublaði Leifs 1884 birtir ritstjórinn yfirlýsing nokkurra manna út af þessu og hljóðar hún svo:

,,Samkvæmt ósk herra Helga Jónssonar, eiganda og ritstjóra Leifs, látum vér undirskrifaðir það álit vort í ljós að ónauðsynlegt sé að kvarta við Kanadastjórn um ritstjórn Leifs, og að aðferð sú, sem mótstöðumenn ritstjóra Leifs hafa við haft, sé óheppileg og árangurslaus. Enn fremur, að vér erum ánægðir með ritstjórn Leifs hingað til, eftir kringumstæðum, og berum það traust til eiganda hans, herra Helga Jónssonar, að hann haldi áfram að bæta hann, hér eftir eins og að undanförnu, svo blað hans verði Íslendingum til heiðurs og uppbyggingar.'' Undir þessa yfirlýsing rituðu meðal annara síra Jón Bjarnason, Árni Friðriksson, Eyjólfur Eyjólfsson og Sigtryggur Jónasson. Varð því ekkert úr þeirri fyrirætlan að koma á ritsjóra skiftum við blaðið. Mun Frím. nú hafa snúið sér að því að halda námi sínu áfram hér í Winnipeg. Þess er getið í Leifi 12. júní sumarið 1885, að hann hafi tekið stúdents próf við Manitoba-háskólann og orðið *Bachelor of Arts* við vorprófin með bezta vitnisburði einkum í náttúruvísindum. Voru honum veitt $80 verðlaun fyrir þá frammistöðu sína í peningum. Um sumarið mun hann hafa dvalið í Winnipeg, því 19. okt. er þess getið, að hann hafi flutt fyrirlestur um Manitoba og Norðvesturlandið og stendur ágrip af því erindi í blaðinu.

Frímann Anderson mun hafa verið 27 ára gamall

um þetta leyti, því hann kom til Ameríku 25. sept. 1874 og var þá 17 ára að aldri. Eftir því ætti hann að vera fæddur árið 1857. Eins og áður er ávikið hafði hann fengið tilsögn í almennum fræðigreinum á Íslandi hjá síra J. Björnssyni á Ríp og síra Árna Jóhannssyni í Glæsibæ, svo hann mundi að líkindum hafa náð inntöku í annan bekk latínuskólans. Hann hafði námshæfileika prýðisgóða og óslökkvandi námsþorsta. Hann var maður, sem einlægt hefði getað verið að læra og ávalt fengið ágætan vitnisburð við hvert próf. En hann brast aftur þann hæfileika frekar en flesta menn aðra að færa sér það í nyt í lífinu, er hann hafði numið. Hann var maður hvorki forsjáll né hagsýnn og skorti þau verkhyggindi, er öllum mönnum eru svo afar-nauðsynleg, til þess að koma ár sinni fyrir borð í lífinu. Hann var bezti drengur með einlægan áhuga og brennandi fyrir öllu því, er hann hélt að betur mætti. En áhuginn var mikils til of ákafur. Hann gætti hvorki hófs né stillingar, en vildi öllu koma til leiðar um leið og honum hugkvæmdist það. Hann var býsna mælskur maður. Hann varð svo heitur oftast nær, er hann talaði, að eldur hraut af orðum hans. En hugsanir hans voru einatt næsta óljósar. Honum var ekki ávalt nærri því ljóst, hvað hann var sjálfur að fara, eða hvað það eiginlega var, sem hann í þann svipinn brann af áhuga fyrir og tók út harmkvæli í hjarta sínu af að geta ekki komið í framkvæmd. Það vantaði jafnvægi í huga hans og geðsmunirnir virtust því miður ekki alls kostar heilbrigðir. Þetta varð því til fyrirstöðu, að hann gæti eiginlega nokkuru áorkað. Ef þessi brestur hefði ekki verið í lund hans og gáfnafari, var hann manna líklegastur til að verða mannfélagi Vestur-Íslendinga til gagns og prýði.

## 35. Bindindisfélagsskapur.

Um þetta leyti gekk bindindishreyfing all-sterk yfir flest hin mentuðu lönd. Á Íslandi var sú hreyfing nú í þann veginn að brjótast inn yfir landið og Goodtemplara-félagsskapurinn að koma þar fótum fyrir sig. Eins og á er vikið hér að framan, var óregla ekki svo lítil með Íslendingum í Winnipeg fyrst framan af, einkum um það leyti, er fjörkippurinn mikli í viðskiftalífinu í borginni stóð yfir. En ávalt höfðu menn til þess fundið, að þetta var tjón mikið, bæði einstaklingunum og félagslífinu, og hafði því ávalt verið reynt við því að sporna af rétt hugsandi mönnum, bæði konum og körlum. En ekki verður neins eiginlegs bindindisfélagsskapar vart fyrr en síra Jón Bjarnason kom til sögunnar. Hann hafði gengist fyrir myndun bindindisstarfsemi á Seyðisfirði, meðan hann dvaldi þar, og mun það þá hafa verið næsta nýtt og fáheyrt á þeim hluta landsins. Um haustið eftir að hann kom vestur hingað gekst hann fyrir stofnun bindindisfélags (17. okt. 1884). Var hann sjálfur til forseta kosinn, en kona hans, frú Lára Bjarnason, Jón Björnsson, Andrés Reykdal og Signý Eyjólfsson meðstjórnendur; Jón Björnsson var skrifari, en Andrés Reykdal féhirðir. Gengu 53 í félagið, bæði karlar og konur. Ýmsir fóru nú að rita um mál þetta í Leif og hvetja af alefli til þess, að hlynt væri sem allra-mest, að bindindismálinu. Meðal þeirra voru B. Pétursson í Winnipeg og S. M. Askdal í Minnesota. Um veturinn, 27. feb. 1885, hélt félagið fund til þess að skýra frá starfsemi sinni og auka tölu félagsmanna. Gekk þá 20 manns í félagið, 14 karlmenn og 6 konur. Í fundarlok skýrði skrifari fundarins frá, að nú væri 80 manns í félaginu, 40 karlar og 40 konur. Nefnd var kosin til að koma því til leiðar, að vínsölumenn yrðu sektaðir fyrir að selja börnum og unglingum áfengi.

Eftir fund þenna voru lög félagsins birt á prenti. Er þar tekið fram í fyrstu grein, að félagið hafi stofnað verið af meðlimum kvenfélagsins íslenzka í Winnipeg. Bindindis-loforðið hljóðaði svo:

,,Eg undirgengst og lofa hátíðlega við drengskap minn svo lengi sem eg er í félagi þessu, að neyta ekki neins áfengs drykkjar, hverju nafni sem nefnist, nema að því leyti, sem leyft er í 2. grein laga þessara, ekki heldur að gefa eða selja eður lána þá nokkurum manni í mínu eigin eða annarra manna nafni, og yfir höfuð með öllu leyfilegu móti hamla allri annarri nautn slíkra drykkja en þeirri, sem undan er tekin í 2. grein laga þessara.‘‘ Þessi undantekning var, að njóta mætti áfengis að læknisráði og við altarisgöngu.

Sumarið 1885, 5. ág., hélt félagið ársfund sinn. Hafði þá tala félagsmanna að eins aukist um sex síðan um veturinn. Segir Leifur, að fundurinn hafi verið dauflega sóttur og að í félaginu séu 86 manns, mest unglingar og kvenfólk. Á fundinum var bent á það, hve bindindisstarfsemin væri nú að ná mikilli útbreiðslu á Íslandi, Good-templaradeild komin á í Reykjavík, alþingi send áskorun til að hefta þetta átumein mannfélagsins, enda hundrað ár rétt liðin síðan fyrsta ritið var samið um skaðsemi áfengra drykkja af dr. Rush í Bandaríkjunum, og bindindisstarfsemin með því riti hafin, fyrst í Bandaríkjunum, en þaðan breiðst smám saman út um Norðurálfulöndin. Þrátt fyrir alt þetta væru nú Íslendingar í Winnipeg svo sinnulausir í þessu efni, að lítið yrði ágengt. Í næsta blaði voru nöfn allra félagsmanna birt, til þess það yrði heyrum kunnugt, hverir í bindindisfélagi þessu væru.

## 36. Uppreist kynblendinga.

Þegar hingað er komið sögunni, verðum vér um stund að snúa huga vorum frá íslenzku nýlendunni í

Winnipeg og átta oss ofurlítið á einstökum atriðum í sögu landsins, er þeir höfðu tekið sér bólfestu í. Saga þeirra tók nú óðum að fléttast saman við sögu landsins, svo upp frá þessu er hvoruga söguna unt að segja án tillits til hinnar. Vér erum nú að einum slíkum áþreifanlegum snertipunkti komnir,—viðburði einum í sögu landsins, sem Íslendingar með hluttöku sinni fléttuðust inn í.

Hudson-flóafélagið fræga hafði um langan tíma völd öll og yfirráð yfir vesturhluta Kanada öllum. Eins og kunnugt er, var það einkum verzlunarfélag, en hafði um leið á hendi landsstjórn alla á þessu víðlenda svæði. En er tímar liðu og eftir að fylkin í austur-Kanada voru saman runnin í eina alríkisheild, sáu menn, að eðlilegast var, að allar eignir Breta frá hafi til hafs væru látnar lúta þeirri sambandsstjórn. Loksins tókust þá líka samningar þeir með félaginu og stjórn Kanada fyrir milligöngu Granville lávarðar, árið 1869, að það afsalaði sér allri landstjórn á öllu svæðinu, er það hafði haft til umráða, gegn því að Kanada stjórn greiddi þrjú hundruð þúsund pund sterling í peningum, gæfi félaginu eignarrétt til tuttugasta hluta alls lands, er bygt yrði á frjósamasta svæðinu í fimtíu ár, ótakmarkaðan verzlunarrétt og lausn frá sköttum og skyldum á löndum sínum og verzlun. Samningar þessir voru staðfestir af Kanadastjórn árið 1869. Og um leið voru lög útgefin um sérstaka stjórn fyrir Manitoba. 28. sept. var fyrsti landstjórinn skipaður fyrir Manitoba; nefndist hann *Mcdougall* og var þá einn af helztu fylgismönnum Sir *John Macdonald's*. Seint í októbermánuði var hann kominn til Manitoba. En lögformlega átti stjórn landsins að renna úr höndum félagsins og í hendur Kanadastjórnar 1. desember 1869. En þegar hann kom vestur hingað, fann hann landið, er hann átti að gjörast landstjóri fyrir, alt logandi í uppreist. Stjórn-

inni hafði orðið það glappaskot á að spyrja ekki eftir vilja fólks þess, er á þessu svæði bjó, eða leggja stjórnartilbreyting þessa að nokkuru leyti fyrir það til álits og umsagnar. Fanst því, að hér vera farið með það kaupum og sölum eins og skynlausar skepnur væri. Enda er það nú alment viðurkent, að stjórninni hafi farist það fremur óheppilega úr hendi, þó alt hefði á endanum komið í sama stað niður. Flestalt fólk á þessu svæði var þá kynblendingar, frakkneskir í aðra ættina, en Indíánar í hina. En víðs vegar voru líka menn úr Austur-Kanada, er hingað voru komnir af ýmsum ástæðum, þó af þeim væri tiltölulega fátt. Varnarráð (*Council of Defence*) var myndað; voru í því þrír menn: *John Bruce*, *Louis Riel* og *Ambrose Lepine*, en eiginlega var Riel foringinn. Forðabúr Hudsonflóafélagsins voru tekin, en þar var nóg af vopnum, vistum og skotfærum. Herflokkur af kynblendingum reis upp og í honum ekki færra en fimm til sex hundruð manns. Stjórnin reyndi nú að miðla málum sem bezt hún mátti og gengu þeir *Donald A. Smith* (*Strathcona* lávarður) og *Taché* erkibiskup bezt fram í því. Hefði þeim orðið fljótt og vel ágengt, ef ekki hefðu enskir nýlendumenn í grend við *Portage* farið að skifta sér af þessu og sent menn af stað til að kollvarpa bráðabirgða stjórn Riels. Út af því varð Riel óður, gjörðist nú eins konar einvaldur alræðismaður, tók fulltrúa stjórnarinnar fasta, varpaði öllum landsbúum, er ekki vildu viðurkenna forustu hans, í dýblizu, rak flokk þann, er sendur var frá Portage á móti honum, algjörlega af hendi sér, og lét skjóta *Thomas Scott*, einn helzta fylgismann stjórnarinnar í hópi enskra nýlendumanna, án dóms og laga. Mæltist alt þetta illa fyrir eins og nærri má geta og þó einkum hinn síðasti gjörræðis-glæpur.

En stjórnin hafði enn stilling til þess að halda málamiðlun áfram, án þess að grípa til annarra ör-

þrifsráða. Þeír Donald A. Smith og Taché fengu fljótt frelsi sitt aftur og fyrir viturlegar fortölur þeirra tókst þeim að koma friði á með nýlendumönnum og fá Riel og þá alla til að kannast við lögsagnarvald þingsins í Kanada og játast undir það. Sendu þeir nefnd manna austur til Ottawa til að leggja kærumál sín fyrir stjórnina. Hafði alt þetta þann árangur, að Manitoba var gjört að fylki (*Province*), en ekki héraði (*Territory*), eins og áður var til ætlast. En með því móti fengu nýlendumenn sjálfir fulla heimastjórn í öllum fylkismálum.

Mjög var stjórninni legið á hálsi fyrir að hegna Riel ekki fyrir uppreistina og einkum fyrir líflát Scotts, sem var gamall Ontario-fylkismaður. Einkum voru æsingar miklar með mönnum þar í fylkinu út af þessu, því þar var bróðir Scotts og ættmenni önnur til eftirmála. Komst það svo langt, að fylkisþingið lagði 5000 dollara til höfuðs Riel. Aftur átti hann meðhaldsmenn marga og mikilhæfa í Quebec-fylki svo ekkert varð úr málarekstri gegn honum. Og við kosningar þær, er fram fóru 22. janúar 1874 var Riel kosinn til þingsetu í Ottawa frá *Provencher*-kjördæminu, þar sem allur fjöldinn af frakknesku fólki í Manitoba átti heima. Komst hann klaklaust til Ottawa, ritaði nafn sitt á þingmannalistann og undir þingmenskueiðinn. En af því sem hann átti kæru yfir höfði sér fyrir dómstólunum í Manitoba, voru óvinir hans sér út um skipun til að taka hann fastan. Óvíst er, að þeirri skipan hefði nokkurn tíma framfylgt orðið. svo mikið meðhald hafði hann á hæstu stöðum. En hann var hræddur um sig og sat ekki á þingi. Var þá loksins borin fram tillaga um, að honum væri ski að að sitja á þingi 1. apríl. En þegar hann lét ek sjá sig þar, var hann tveim vikum síðar gjörður ræk af þingi, og greiddu þó 68 þingmenn atkvæði á mó En fimm mánuðum síðar fóru nýjar kosningar fram í

Provencher-kjördæminu og var þá Riel aftur kosinn. 15. febrúar 1875 lagði Mackenzie fyrir þingið útlegðardóm, er kveðinn hafði verið upp yfir Riel af *Wood*, háyfirdómara Manitobafylkis, fimm dögum áður, og mæltist til, að þingið gjörði yfirlýsing um, að Riel væri útlægur fyrir glæpsamlegt athæfi. En þessi útlegðar-yfirlýsing bar í sér sektaruppgjöf við Riel, er útlegðartíminn væri út runninn. Fór hann þá til Montanafylkis í Bandaríkjum og settist þar að, en hélt áfram að vera átrúnaðargoð kynblendinganna í Manitoba.

Samkvæmt grundvallarlögum þeim, er Manitobafylkið hafði öðlast, átti hver kynblendingur, er fæddur var fyrir 1. júlí 1870, tilkall til að fá 240 ekrur af landi og var um leið réttartilkall Indíána til landsins numið úr gildi. Aftur var engin ákvörðun gjör um kynblendingana, er heima áttu í héröðunum fyrir vestan Manitoba og var það öldungis eðlilegt, að þeir ættu von á, að jafn-vel væri með þá farið og frændur þeirra í Manitoba. Þegar árið 1875 sendu þeir bænarskrá austur um þetta, og mælti stjórnarráð héraðanna fast með henni. Hvað eftir annað voru bænarskrárnar endurteknar og meðmælin með þeim. En stöðugt skelti stjórnin skolleyrum við kröfum þessum og var það auðvitað vegna þess, að hér áttu kynblendingar hlut að máli. Nú var hún í óða önn að láta mæla upp landið. En það er siður kynblendinga, að setjast að á árbökkum og ætla sér örmjóa spildu, en alt að því fjögra mílna langa, að landnámi. Þeir vilja umfram alt búa hver við hlið annars á fljótsbakka. En nú lét stjórnin mæla land alt og afmarka í ferhyrnda reiti og komst öll landareign kynblendinganna með því móti á ringulreið. Út af þessu urðu þeir nú aftur óðir og uppvægir og senda að síðustu menn suður til Montana, til að leita Riel uppi og biðja hann að taka málstað þeirra að sér. Þeir höfðu

ekki gleymt honum í útlegðinni; hann var enn þá sama átrúnaðargoð þeirra og hann hafði áður verið. Fóru sendimenn þeirra 700 mílur fótgangandi frá St. Laurent-bygðinni og alla leið langt suður í Montana og fengu Riel til að taka sig upp og rétta við málstað þeirra.

Riel lét ekki á sér standa og var fljótur til farar. Í september lét hann kynblendingana leggja fram kröfuskjal til stjórnarinnar í sjö liðum, en að eins þóttu sanngjörnum mönnum tveir af þeim liðum takandi til greina, en hinir ósanngjarnir. Fóru hinar sanngjörnu kröfur fram á, að kynblendingum í héruðunum fyrir vestan Manitoba væru sömu hlunnindi veitt með tilliti til landeignar og frændum þeirra í Manitoba; flestir eða allir ensku-mælandi menn, er á þessu svæði bjuggu, munu eindregið hafa álitið, að þetta ætti stjórnin að gjöra. Hefði nú stjórnin flýtt sér að verða vel við kröfum þessum og látið þá fá fullkominn eignarrétt fyrir löndum sínum mundu engin friðarrof hafa orðið og Riel verið sviptur öllum vopnum. En stjórnin var næsta sein til og hefir líklega álitið öllu óhætt. Fór það þá loks svo, að uppreistin brauzt út í algleymingi 26. marz 1885, enda höfðu margir gætnir menn og þjóðhollir, er kunnugir voru ástæðum öllum, lengi spáð að svo mundi fara, ef ekkert væri að gjört.

Þegar 17. marz höfðu kynblendingar myndað bráðabirgðarstjórn í St. Laurent og var Riel forseti, en *Gabriel Dumont* aðal-hershöfðingi. Staðurinn, sem óeyrðir þessar brutust út á, var 550 mílur norðvestur frá Winnipeg, í Saskatchewan-dalnum, við nyðri kvísl árinnar. Þar var þorp eitt, er Carlton nefnist, og skipaði Riel því að gefast upp og ganga uppreistarmönnum á hendur. Við *Duck Lake* hafði stjórnin vörubirgðir miklar handa Indíánum og féllu þær allar í hendur uppreistarmönnum. Ætlaði stjórn-

in að ná þeim aftur og sendi flokk lögregluliðs og hersveit sjálfboðaliðs frá *Prince Albert* þangað, en þeir voru reknir á flótta af kynblendingum og Indíánum, tólf drepnir og jafnmargir særðir.

Hér í Winnipeg hafði hersveit ein myndast nokkuru áður af sjálfboðaliði og nefndist hún „*The Ninetieth Batalion of Winnipeg Rifles.*" Var henni nú boðið að leggja út og fóru 120 menn úr henni með sérstakri vagnlest að kveldi 25. Marzmánaðar áleiðis vestur og áttu hinir að fara að nokkurum dögum liðnum. Í hersveit þessari voru níu eða tíu Íslendingar og fóru nokkurir þeírra þegar í þessum fyrsta hóp. Foringi leiðangursins hét *Frederick D. Middleton.*

Það má nærri geta, að hér í Winnipeg hafi um fátt annað verið talað um þessar mundir. Í hugum manna alment mun málstaður kynblendinganna hafa mjög óljós verið. Menn skildu það eitt, að hér var um uppreist að ræða og keptist hver við annan að vera löghlýðninnar og landstjórnarinnar megin. Í því vildu Íslendingar engan veginn eftirbátar vera, og mun þeim það engin uppgerð verið hafa. Stjórnin gjörði ráð fyrir að senda 4000 hermanna að austan og einu þúsundi bjóst hún við að geta bætt við frá Winnipeg og öðrum bæjum í Manitoba. Dagblöðin komu hér út fjórum til fimm sinnum á degi hverjum, en ekki voru ávalt fréttirnar miklar, því kynblendingar höfðu rænu á að eyðileggja ritsímann, svo engin skeyti væri hægt að senda á milli. Tvær aðrar hersveitir voru myndaðar hér í Winnipeg og voru 5 eða 6 Íslendingar í þeim. Smátt og smátt komu herflokkarnir að austan hingað til Winnipeg. Hét einn þeirra *Royal Grenadiers* frá Toronto. Í þeim herflokk var einn undirforingi íslenzkur (*Sargeant*), Jón Guðmundsson að nafni, ættaður úr Dalasýslu.

Þar sem það mun fróðlegt þykja að vita, hverir Íslendingar voru með í hernum og tóku þátt í leið-

angri þessum, skulu hér sett nöfn þeirra:

1. Jóhann Pálsson,
2. Þorsteinn Pétursson, *Corporal* (eða riðilsstjóri á ísl.),
3. Þorvarður Jóhannsson,
4. Stefán Guðmundsson, 90th Batt.
5. Magnús Jónsson,
6. Jón Dínusson,
7. A. F. Reykdal,
8. P. S. Bardal,
9. Runólfur Runólfsson,
10. Kristján Pétursson,
11. Jón Júlíus,
12. Jón Blöndal.
13. Björn Blöndal,
14. Stefán Guðmundsson, Manítoba Gren.
15. Helgi Bjarnason?
16. Sigurður Árnason,
17. Jakob Jóhannsson?
18. Jón Guðmundsson.

Nöfn þessara íslenzku hermanna eru hér eins og þau standa í Leifi. Við tvö þeirra standa þar spurningarmerki og þýðir það sjálfsagt, að ekki hafi verið vissa fyrir, að nöfnin væru rétt. Þrír þeirra, sem þarna eru taldir, voru ekki með hernum. Kristján Pétursson var niðri í Nýja Íslandi. Páll S. Bárdal lagðist veikur stuttu áður en farið var á stað frá Winnipeg og Andrés Reykdal lagðist veikur á leiðinni í *Fort Qu' Appelle*, lá þar um hálfs mánaðartíma, var þá sendur heim aftur, en náði svo heilsu á skömmum tíma. Auk þeirra, sem taldir eru, var einn Íslendingur við herinn, umsjónarmaður hesta við vistaflutning, Jón Jónasson að nafni.

Hersveitin frá Winnipeg varð fyrst til að mæta uppreistarliðinu. Á föstudagsmorgun var lagt af stað eftir vanda upp með ánni, með flokk ríðanda forhlaupsliðs kippkorn á undan. Eftir að hersveitin hafði haldið fimm mílur vegar um morguninn af og til gegn um dálitla skógarrunna, heyrði hún skothríð fram undan sér. Voru uppreistarmenn þar þá fyrir og sendu hersveitinni fyrstu kveðju sína. Hvatti Middle-

ton herforingi sveitina þá til öruggrar framgöngu og var þá hlaupið fram all-langa leið. En þar kom, að hún stóð í dæld nokkurri með knédjúpu vatni, en skógar og hæðir umhverfis. Var þar allmargt af Indíánum og gægðust þeir fram undan trjánum og skutu hver í kapp við annan á hersveitina, sem stóð í pollinum, þreytt og móð eftir hlaupin. Engu síðar veitti hún hraustlega viðnám og sendi Indíánum kúlnahríð all-harða inn í skóginn. Stóð orusta þessi í þrjár eða fjórar klukkustundir. Hörfuðu þá Indíánarnir lengra inn í skóginn, en hermennirnir sóttu á eftir þeim með ópi og eggjunarorðum, þangað til herlúðurinn var þeyttur og þeir kallaðir til baka aftur, en þá sóttu Indíánar aftur á eftir þeim. Skeytti hersveitin þeim þá ekki, en færði sig upp úr dældinni og vatninu út á sléttur nokkurar lengra frá skóginum og nam þar staðar, þegar hún var svo langt komin, að kúlur óvinanna náðu henni ekki. Fjórir eða fimm menn féllu en 40 særðust og sumir til ólífis. Enginn Íslendinganna varð sár. Þetta var við *Fish Creek*. Þar var var legið í herbúðum hálfan mánuð. Beið Middleton þar eftir skotvél einni (*Gatling Gun*), er von var á frá Bandaríkjunum. Að þeim tíma liðnum var hún komin og með henni *Howard*, höfuðsmaður úr her Bandamanna. Var þá haldið tafarlaust frá Fish Creek til *Batoche*, sem var aðalaðsetur Riels. Varð þar bardagi allharður og þótti þá skotvélin Howards koma að góðu haldi, enda var hægt að hleypa úr henni 100 skotum á hverri mínútu. Fóru kynblendingar þar algjörlega halloka eins og búast mátti við, en af mönnum Middletons féll að eins einn, en 6 urðu sárir, og var enginn þeirra frá Winnipeg. Þetta var laugardag 9. maí. En af og til var þarna barist í fjóra daga og féllu þá átta af mönnum Middletons og voru tveir þeirra frá Winnipeg, en 42 særðust. Meðal hinna særðu var einn Íslendingur, Magnús Jónsson. Var

kúlu skotið gegn um vöðvann í vinstra upphandleggnum, rétt með fram beininu. Þrátt fyrir sár þetta stóð hann og barðist í heila klukkustund, eins og ekkert hefði ískorist; var þá farið með hann nauðugan til herbúðanna. Af Riels mönnum hafði fallið yfir 60 manns og nálægt 100 særst. Gáfust þar heilmargir kynblendingar upp. En sjálfur var Riel handtekinn í skógi einum 3 mílur fyrir norðan Batoche föstudagsmorguninn 15. maí. Kvaðst hann þá vera á leiðinni til herbúða Middletons til að gefast upp. Leit út fyrir, að hann væri ekki með öllum mjalla, þegar hann kom í herbúðirnar, því hann fekst ekki til að tala nema lítið, en þuldi bænir í hálfum hljóðum og signdi sig allan utan. Var fljótlega farið með hann til bæjarins Regina, þar sem hann var settur í varðhald. Enn var æðilengi verið að eltast við smáflokka, sem ekki vildu gefast upp. Hét *Big Bear* Indíáni einn, er safnað hafði stærsta flokknum kring um sig, og var all-lengi verið að elta hann uppi. En bráðum var hann handsamaður og flokkur hans og mátti þá svo heita, að uppreistinni væri lokið. Kom Middleton hershöfðingi með her sinn til Winnipeg aftur 14. júlí. Var þá tekið á öllu því sem til var í Winnipeg til að fagna þeim og hafði aldrei sést hér önnur eins viðhöfn í borginni. Framfarafélagið hélt kveldverðarsamkomu í húsi sínu 1. ág. til að fagna hermönnunum íslenzku, er haldið höfðu uppi heiðri þjóðflokksins og fornri herfrægð, þótt enginn þeirra hafi að líkindum klofið neinn kynblendinginn í herðar niður. Var það fjölmennasta samkoman, sem lengi hafði í félagshúsinu haldin verið, en svo sátu menn lengi undir borðum, að tíminn varð stuttur til ræðuhaldanna. Tveir af hermönnunum sögðu þó frá ýmsu, er fyrir augun hafði borið og á dagana drifið, og voru það þeir Jón Júlíus og Jóhann Pálsson. Þótti öllum þetta hin bezta skemtun.

Louis Riel var kærður fyrir réttinum í Regina og fundinn sekur um uppreist; var hann þegar dæmdur til hengingar, en fullnæging dómsins þrisvar sinnum frestað, til þess að ganga mætti úr skugga um, að hann væri með óbrjáluðum geðsmunum. Að síðustu var hann hengdur í gálga í herbúðunum í Regina og þótti verða vel við dauða sínum og karlmannlega.

### 37. Lát Þorsteins Einarssonar.

Þótt ekki félli margt af Íslendingum í uppreist þeirri, er vér nú höfum sagt frá, féllu þó ýmsir þeirra í valinn í bardaganum við þann óvin, er vér allir einhvern tíma eigum að lúta. Reyndar má fullyrða, að dauðsföllin voru hér fá lengi framan af með Íslendingum í hlutfalli við þann urmul af ísl. fólki, er hér var. Svo hefir það verið alls staðar í öllum nýlendum, er Íslendingar hafa stofnað, fyrst framan af. Samt sem áður voru húsakynni fremur slæm býsna lengi framan af og einkum var það lítið til hollustu, hve menn urðu oft og tíðum að hrúgast saman í einu húsi, til þess að komast hjá að borga háa húsaleigu.

Þýðingarlaust væri að ætla sér að tína saman alla þá af löndum vorum, er hér létust um þessar mundir. En eins manns viljum vér hér geta, sem mjög var framarlega í hópi Winnipeg-Íslendinga fyrstu árin. Það er Þorsteinn Einarsson, organleikari, og hefir hans hér að framan getið verið. Hann lézt úr taugaveiki 15. janúar 1884 og var harmdauði öllum þeim, er hann þektu. Hann var fæddur í Tunguseli í Norður-Þingeyjarsýslu í ágústmánuði 1857 og var því enn maður kornungur, að eins 27 ára að aldri. Hann var bróðir þeirra Sigfúsar og Sigurðar Einarssona (Anderson), sem málaraiðn reka hér í borginni, og öllum Winnipeg-Íslendingum eru að góðu kunnir. Hann hafði alist upp hjá foreldrum sínum á Íslandi, þangað til hann var 16 ára gamall. Þá lézt faðir hans. Var

hann þá um nokkur ár við og við hjá Gunnari próíasti Gunnarssyni, er þá var á Svalbarði í Þistilfirði, og naut hjá honum tilsagnar í ýmsum almennum fræðum. Þótti honum vart verða hjá Þorsteini góðra hæfileika og annarra mannkosta; vildi því þessi góðfrægi klerkur koma Þorsteini til manns og láta hann læra til prests. En þá létust þeir, síra Gunnar og faðir Þorsteins um sömu mundir, og fórst þá skólagangan fyrir. Tókst Þorsteinn þá á hendur að sjá um móður sína og systkini og fórst það einkar vel til dauðadags. Hann var snemma hneigður fyrir söng og hljóðfæraslátt; leitaðist hann við að nema hvorttveggja eftir föngum og hafði lokið við nám í að leika á organ, eftir því sem þá tíðkaðist á Íslandi. Auk þess hafði hann lagt fyrir sig málaraiðn áður hann fór frá Íslandi; en þá var hann að eins 22 ára gamall. Móður sína styrkti hann til ferðar vestur tveim árum áður en hann dó og var hún hjá honum hér. Hann hafði verið þrjú ár kvæntur Elínu Kjærnested og átt með henni tvö börn; var að eins annað þeirra á lífi, er Þorsteinn lézt.

Vér höfum hér drepið á æfiferil manns þessa sökum þess, að hann var einkennileg persóna og ógleymanleg í nýlendulífi Winnipeg-Íslendinga þessi fyrstu ár. Þorsteinn Einarsson var maður fjörugur og skemtinn, ötull og félagslyndur, hlyntur öllu því, er betur mátti fara, og drengur góður. Hann var því framarlega í öllum helztu félagsmálum og mun einkum hafa verið góður frömuður allra siðlegra skemtana. Hann var betur að sér í söng og hljóðfæraslætti (organspili) en nokkur annar í hópi Íslendinga um þær mundir. Gekst hann fyrir því, að sönghæft fólk ísl. kæmi saman til söngæfinga og varð töluvert í því ágengt, að menn lærðu ofur-lítið að syngja saman. Var það góðra gjalda vert, því hugur unga fólksins hneigðist of mjög að dansi og hugsunarlausu gjálífi, sem fremur gjörði menn að minni mönnum en meiri.

Við fráfall hans svo snemma á æfinni þótti flestum skarð fyrir skildi með Íslendingum í Winnipeg. Bæði var hann maður á bezta aldri, einstaklega vel látinn, og til þess manna líklegastur, að koma ár sinni vel fyrir borð í lífinu og verða einn af forkólfum íslenzks félagsskapar í borginni.

38. BALDVIN L. BALDVINSSON.

Maður er Baldvin nefndur Baldvinsson. Hann var um þessar mundir einn hinn álitlegasti í hópi ungra Winnipeg-Íslendinga, enda hefir hann síðan svo mikið látið til sín taka um marga hluti, að oss þykir við eiga að láta hans nú þegar að nokkuru getið og mun þó síðar ástæða til að gjöra það frekar.

Þess hefir getið verið hér að framan (Almank 1904 bls. 97), að Baldvin Baldvinsson hafi kosinn verið forseti Framfarafélagsins sumarið 1883. Helzta málið, er félagið hafði þá með höndum, var að leiðbeina fólki, er þá kom frá Íslandi. Hafði hann umsjón á hendi yfir öllu því, er það gat gjört til aðstoðar vesturförum, og þótti farast það vel úr hendi.

Baldvin er fæddur á Akureyri við Eyjafjörð 26. október 1856. Hann er sonur Baldvins Jónssonar, skálda, og Helgu Egilsdóttur, yfirsetukonu. Ólst hann upp með móður sinni og stjúpa, Kristjáni Tómassyni, þangað til hann fluttist til Reykjavíkur með móður sinni, sem þá var veitt yfirsetukonuembættið þar. Þar var hann með henni tvö ár 1867 og 68. En að þeim liðnum hvarf hann til Akureyrar aftur til ömmu sinnar, Guðnýjar Kráksdóttur og manns hennar, Steins járnsmiðs Kristjánssonar, foreldra Friðbjarnar bóksala Steinssonar á Akureyri, og var að fóstri með þeim heiðurshjónum, þangað til hann fluttist til Ameríku árið 1873. Þau tvö ár, sem hann dvaldi í Reykjavík, naut hann stöðugrar kenslu við barnaskólann, en allan tímann, er hann var á Akur-

eyri, naut hann að eins fjögra mánaða tilsagnar á skólanum þar. Samt sem áður hafði hann numið danska tungu nokkurn veginn og var allvel orðinn að sér í almennum fræðum eftir því sem þá mun hafa títt verið um unga menn á hans reki á Íslandi. Skósmíð hafði hann líka nokkurn veginn numið.

Þegar hópurinn álitlegi tók sig upp frá Akureyri til Vesturheimsfarar sumarið 1873, varð hann einn í þeim hópi, þótt eigi væri hann þá meira en seytján ára gamall. Til borgarinnar Toronto í Kanada kom hann í september mánuði 1873 og þar var hann stöðugt í hálft níunda ár, eða þangað til í marz 1882. Þeir Árni Friðriksson og Baldvin voru þar báðir saman, eins og fyrr er getið, fyrst framan af, og stunduðu báðir skóara iðn, er báðir höfðu dálítið gefið sig áður við. Þessi árin gekk Baldvin nokkurn veginn stöðugt á kveldskóla og keptist við að nema tungu landsins og setja sig inn í landsmál og landsháttu eftir mætti.

En er fram í sótti, stóðst hann ekki mátið lengur en reif sig upp frá Toronto, til þess að komast í hóp landa sinna, sem þá voru hér svo margir orðnir. Kom hann til Winnipeg vorið 1882 og vann hann hjá Sigtryggi Jónassyni á gufubátnum *Victoria*. En veturinn eftir 1882—83 vann hann hjá Framfarafélaginu við verzlun þá, er það félag þá rak í sölubúð þeirri, er Árni Friðriksson nú hefir á Ross-stræti. Um sumarið 1883 fór hann á móti íslenzkum vesturförum alla leið austur til Quebec. Upp frá þeim tíma var hann eiginlega stöðugt starfsmaður stjórnarinnar að íslenzkum innflutningsmálum til margra ára. Fyrstu ferð sína til Íslands í þeim erindum fór hann 1886. En í alt mun hann hafa farið einar sex ferðir, þangað til árið 1894, að hann hætti þeim starfa. Hefir honum sjálfum talist svo til, að hann á þessum árum hafi leiðbeint rúmlega sjö þúsund manns vestur um haf á leið til nýrra heimkynna í þessari heimsálfu.

Í þessari stöðu sinni aflaði hann sér góðs orðstýrs fyrir dugnað og lipurð. Hann var líka að flestra rómi nýkomnu fólki, er allslaust og ráðþrota stóð hér uppi, einkar ráðhollur maður og lét sér vera sérlega ant um hagi þess. Enda hefir hann óefað á þessum árum eignast fjölda vina, er síðan hafa fylgt honum að málum.

Áður en Baldvin fór að fara Íslandsferðir sínar byrjaði hann á verzlun með skófatnað í félagi við Andrés F. Reykdal. Var skóbúð sú niðri á Aðalstræti bæjarins fyrir neðan Logan-stræti. Árið 1887 létu þeir gjöra reisulegt hús vestur á Ross-stræti, sem stendur þar enn og þótti það þá hið mesta skrauthýsi. Rak Reykdal skóverzlun sína þar meðan Baldvin var í vesturfaraleiðangrum til Íslands, þangað til Baldvin seldi honum sinn hluta í verzluninni árið 1889. Gaf Baldvin sig þá við vesturfaramálum eingöngu þangað til 1894. Upp úr því rak hann matvöruverzlun á horni William og Nena stræta, þar sem *Lögberg* hefir nú aðsetur sitt, þangað til árið 1898 að hann keypti blaðið *Heimskringlu* og gjörðist ritstjóri þess. Árin 1892 og 96 sótti hann um kosning til fylkisþingsins í Manitoba, í fyrra skiftið móti innlendum manni, *Colcleugh* að nafni, en hið síðara skiftið móti Sigtryggi Jónassyni kaptein, en varð undir í bæði skiftin. Ekki kom honum til hugar að gefast upp fyrir það, heldur færðist hann í aukana og lét sér nú til hugar koma að eignast málgagn með einhverju móti, svo hann gæti gjört mönnum skoðanir sínar á landsmálum skiljanlegar. Áður næstu kosningar fóru fram hafði hann keypt blaðið „Heimskringlu" (1898). Við kosningar til fylkisþings, er fram fóru 1899, bar hann sigur úr býtum og var þá Sigtryggur Jónasson aftur gagnsækjandi. Og við kosningar 1903 var Baldvin endurkosinn til þings.

Árið 1886 í september mánuði gekk Baldvin að eiga Helgu Sigurðardóttur. Guðmundssonar. Hún er fædd í Glaumbæ í Skagafirði. Bjó faðir hennar á Jaðri og síðar á Ingveldarstöðum í Hjaltadal. Sex barna hefir þeim auðið orðið og lifa fjögur þeirra, þrjár stúlkur og einn drengur.

Baldvin hefir verið reglumaður hinn mesti, sparsamur, sívinnandi og búhöldur góður, enda er hann nú talinn laglega efnaður maður. Hjálpsamur hefir hann verið og ráðhollur og eignast fyrir hvorttveggja marga vini. Hann hefir líka þótt hinn áreiðanlegasti í öllum fjármálum, en til þeirra manna bera menn oft traust í öðrum málum líka. Hann er maður fjörugur og síkátur, lundgóður og lundléttur og hefir ávalt haft gott lag á að koma sér vel við fjöldann.

Ef vér skiljum rétt, er Baldvin einn af þeim mönnum, sem almenningsálitið bergmálar hjá,— hvernig sem það svo er vaxið. Þetta bergmál fann Baldvin hjá sér þegar ungur að aldri; gjörðist hann þegar á fyrstu árum talsmaður þessa almenningsálits gagnvart þeim mönnum með Íslendingum er leiða vildu hugi manna og skoðanir inn í nýjan farveg. Í framkomu sinni allri og frammistöðu hefir hann oftast nær haldið þeim skoðunum fram í flestum efnum, er ríkjandi hafa verið með öllum fjölda landa vorra í þann og þann svipinn. Aftur á móti hefir hann aldrei álitið það ætlunarverk sitt að brjóta bág við skoðanir, er hann hefir álitið að hafa mundu fylgi alþýðu og hylli, heldur virðist hann hafa álitið það köllun sína að gefa bergmál þess, er hann hefir álitið skoðun fjöldans, sem greinilegast frá sér, og hefir þá andstæðingum hans fundist hann eigi taka siðferðislegt gildi þess ávalt nógu mikið til greina. Einatt hefir þá sú ástæða verið tilfærð, að hann væri naumast alvörumaður nógu mikill í þeim efnum, til þess að vera leiðtogi, og víst er um það, að meira hefði hann til leiðar komið,

ef alvaran og lotningin hefði meiri verið í lund hans, en hvorttveggja fer vanalega vaxandi með árum og aldri og þá oft um leið farið að stýra knerrinum með meiri gætni og stillingu.

Hann hefir ávalt fylgt flokki íhaldsmanna að málum í stjórnarbaráttu landsins. Hefir það ekki verið af tilviljun einni framar en annað, heldur mun íhaldssemin að vissu leyti vera ein af lyndiseinkunnum hans, þótt fremur hefði mátt við öðru búast. Hann hefir einmitt einkennilega íhaldssamur verið í flestum félagsmálum Vestur-Íslendinga og í mörgum efnum haldið fram þeim hugsunarhætti og skoðunum, er menn fluttu með sér að heiman. Óhætt er að fullyrða, að honum hefir ant um menningu Vestur-Íslendinga verið, en fremur hefir hann borið hina líkamlegu hlið hennar fyrir brjósti en þá andlegu. Sjálfur hefir hann hafist fyrir dugnað sinn og ötulleik til álitlegri stöðu en flestir samlandar hans, enda á hann fylgi og vinsældum að fagna hjá fjölda manna. Má af því marka hagsýni hans og ráðdeild, að fjárhagur blaðs þess, er hann keypti, stóð á fótum mjög veikum, er hann tók við, en mun nú kominn í horf allgott og álitlegt fyrir hyggilega meðferð. Sýnir alt þetta, hve góðum hæfileikum og farsælum maðurinn er gæddur og hve miklu af þeim hyggindum, sem í hag koma. Og þótt dómarnir um mann, sem svo ótrauðan þátt hefir tekið í ágreiningsmálum, hljóti að verða nokkuð ólíkir, mun ávalt verða á hann bent sem sláandi dæmi þess, hve myndarlega Vestur-Íslendingi getur tekist að koma ár sinni fyrir borð, þótt galla einhverja megi finna á róðrarlagi og stefnu.





# Jósef Walter.

Íslenzka sveitin, farsæla og fagra, í Norður-Dakota, á margt ágætra manna og myndarlegra. Enda eru landar vorir þar kappsamir í því að koma þeim á framfæri, þegar tæki gefst, og gjöra þeir í því öldungis rétt.



Jósef Walter.

Langt er síðan þeir fóru að senda fulltrúa á löggjafarþing Norður-Dakota. Fyrstur Íslendinga sat þar Eiríkur H. Bergman, bóndi að Gardar, og var það síðasta árið, er héraðsstjórn var þar við lýði. Næstur honum kom Skafti Brynjúlfsson, alkunnur hæfileika og myndarmaður og á eftir honum Árni Björnsson, sem nú á heima austur í New York. Síðan hafa þar setið hver

fram af öðrum Stefán Eyjólfsson, bóndi að Gardar, Jón Thordarson, hveitikaupmaður að Hensil og Pétur Jónsson Péturssonar Skjöld, kaupmaður að Hallson.

Nú í haust var þar einnig nýr þingmaður kosinn, sem mörgum er að góðu kunnur. Hann heitir Jósef Sigvaldason Walter og er bóndi í grend við Gardar, en bróðir Björns Sigvaldasonar í Argyle. Í hópi Vestur-íslenzkra bænda er hann einn hinn allra fremsti fyrir flestra hluta sakir. Hann er fæddur að Prestshvammi í Þingeyjarsýslu 13. apríl 1858, en varð föður sínum á bak að sjá, er hann var að eins tveggja ára gamall. Var hann þá til fósturs tekinn af Hósíasi Björnssyni, móðurbróður sínum. Ólst hann upp með honum í Jórvík í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, þangað til hann var kominn á tvítugsaldur. Fluttist hann þá til Ameríku árið 1878. Var hann í hópi þeirra, er settust að í Nova Scotia og þar dvaldi hann í tvö ár. Þaðan fór hann til Winnipeg og var þar á annað ár. En seint um haustið 1881 fluttist hann til nýlendunnar íslenzku í Pembina County í Norður-Dakota í grend við Gardar og þar hefir hann síðan búið. Ofurlítið mun honum hafa fénast þann tímann, sem hann dvaldi hér í Winnipeg. En ekki voru efnin mikil hjá honum fremur en flestum öðrum, þegar hann fór fyrst að búa. Hann kunni manna bezt að fara að ráði sínu og varð oft miklu meira úr litlu en mörgum þeim er meira höfðu undir höndum. Enda á hann duglega konu og forsjála, sem átt hefir óvanalega mikinn þátt í góðri búsýslu. Lék þeim búskapurinn í hendi og var þó jörðin, er þau fyrst eignuðust, fremur kostarýr og varð að ryðja af henni örðugum skógarleifum, áður hægt væri að nota hana til kornyrkju. En smám saman voru kvíarnar færðar út og einni jörðinni bætt við aðra hingað og þangað um bygðina og gengu þær oft kaupum og sölum, en þar hefir Jósef reynst flestum mönnum hepnari og hygnari og græddist honum

stórfé á verzlun með lönd og lausa aura. Fyrir nokkurum árum reisti hann sér ljómandi íbúðarhús og er fáa menn betra heim að sækja en hann, því þau hjón eru hvert öðru höfðinglegra og gestrisin bæði í orði og á borði í bezta skilningi. Jósef er nú talinn einn með hinum allra-efnuðustu Vestur-Íslendingum.

En um hann er með sanni hægt að segja það sem meira er um vert, að hann er drengur góður. Það hafa margir til hans komið, þegar þeir hafa verið í vanda staddir, bæði stórum og smáum, og leitað liðsinnis; munu þeir sjaldan hafa svo búnir frá honum farið, enda er hann maður vinsæll mjög og vel látinn. Félagsmaður er hann ágætur og ör á fé til almennra þarfa, því hann er ætíð fús að ljá hverju góðu máli fylgi sitt bæði með ráð og dáð. Hann er laus við að vera maður framgjarn eða sólginn í metorð og er enginn efi á, að það hefir verið vinum hans að kenna að hann lagði út í kosningabaráttuna í haust, enda gekk hann sigri hrósandi út úr henni og situr nú á þingi. Enginn efast um, að hann verði þar bæði sjálfum sér og Vestur-Íslendingum öllum til sóma. Álítum vér það frama fyrir þjóð vora ekki lítinn, að hún á nú fulltrúa á þingum út um heiminn, til að auglýsa nafn eyjarinnar fornu upp við heimskautabauginn og þjóðarinnar, sem þar er ,,að heyja heimsins langa stríð.“

F. J. B.

# Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.

27. apríl 1904 útskrifaðist af lúterska prestaskólanum í Chicago kand. Kristinn K. Ólafsson, með ágætis einkunn. Tveim mánuðum síðar, 27. júní var hann prestvígður í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg af forseta kirkjufélagsins, síra Jóni Bjarnasyni. Síra Kristinn er sonur Kristins Ólafssonar, bónda við Gardar í N. Dakota (úr Eyjafirði).

Við háskólaprófin í Winnipeg í maímán. útskrifaðist úr lærðaskóladeildinni Stefán Guttormsson með 1. einkunn og silfurmedalíu háskólans fyrir þekking í stærðfræði. Stefán er sonur Guttorms bónda Þorsteinssonar í Víðines-bygð í N. Íslandi (frá Krossavík í Vopnafirði).

Við sömu próf tók Hannes Marínó Hannesson annað próf í lögum með ágætis einkunn.

27. júní 1904 var hin nýja og veglega kirkja Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg vígð af forseta og prestum hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vesturheimi, sem þá dagana var að halda sitt 20. ársþing í þeirri kirkju.

Í júlímánuði 1904 tók burtfararpróf af læknaskóla í Chicago (Illinois Medical College), Gísli J. Gíslason, með ágætis einkunn. Dr. Gíslason er sonur Jóns Gíslasonar, sem lengi bjó í Flatatungu í Skagafirði.

Í öndverðum júnímán. 1904 tók fullnaðarpróf í lögum við Minnesota háskólann Halldór B. Gíslason, sá hinn sami, er getið var um í þessu almanaki 1904 í sambandi við kennarastöðu við þann háskóla.

Frá háskólanum í Grand Forks, N. D, tók burtfararpróf í lögum, Gunnar Olgeirsson.

Af búnaðarskólanum í Fargo, N. D. útskrifaðist Th. T. Kristjánsson. Hann er sonur Trausta bónda Kristjánssonar við Gardar, N. D.

Í nóvembermán. 1904 var Jósef Sigvaldason Walter, bóndi við Gardar, kosinn þingmaður fyrir neðrideild Norður Dakota þingsins. Hans er minst hér að framan í þessu almanaki.

---

## MANNALÁT.

### NÓVEMBER 1903.

20. Vigdís Jónsdóttir til heimilis við Siglunes-pósthús við Manitoba-

vatn, kona Péturs Jónssonar þar (af Húsavík í Þingeyjarsýslu), 71 ára.

DESEMBER 1903.

1. Þorbjörg Sigurðardótttr, kona Bergs Jónssonar bónda í Árdalsbygð í Nýja Íslandi (ættuð úr Hornafirði), 75 ára.
14. Ingibjörg Sveinsdóttir í Vancouver, B. C.
14. Gróa Jónsdóttir í ísl. bygðinni í N.-Dak., ekkja Þórarins Árnasonar (frá Rauðamel í Hnappadalssýslu), 81 árs.
21. Einar, sonur Matúsalems Jónssonar bónda í Árdalsbygð í Nýja Íslandi (úr Þistilfirði í Þingeyjars.), 24 ára.
27. Snjólfur Sigurðsson i Blain, Wash., (ættaður úr Mýrasýslu), 50 ára.

JANÚAR 1904.

4. Guðrún Jónsdóttir, kona Björns Ólafssonar bónda við Manitobavatn (frá Vestra Súlunesi í Borgarfirði), 53 ára.
16. Olgeir Baldvinsson í Morden-nýl. í Man., á fimtugsaldri.
24. Gunnar Pálsson í Portage la Prairie, Man., (ættaður úr Þingeyjarsýslu), gamall maður,
31. Hermann Ólafsson, beykir í Winnipeg (af Seyðisfirði), 56 ára.

FEBRÚAR 1904.

1. Ragnheiður Sæunn Sigurðardóttir, kona Kristjáns Þorsteinssonar bónda við Hnausa pósthús í Nýja Íslandi.
3. Jón Sigurðsson í Victoría, B. C. (frá Háafelli í Hvítársíðu í Borgarfj. s.), 38 ára.
4. Jóhannes Jónasson bóndi við Hnausa pósthús í N. Íslandi, 49 ára.
9. Þorvaldur, sonur Þorvaldar Þorvaldssonar bónda í N.-Íslandi (frá Rein í Skagafirði). Námsmaður við Harward háskólann í Cambridge, Mass., 25 ára.
15. María Magnúsdóttir til heimilis hjá syni sínum Gísla bónda Einarssyni í Muskoka, Ont., ekkja Einars Kristjánssonar (úr Þingeyjars.), 79 ára.
25. Guðrún Jónsdóttir í Winnipeg, ekkja Einars Þorbjörnssonar (frá Galtarholti í Borgarfj.s.), 81 ára.
29. Kristín Gunnlaugsdóttir í Selkirk, Man., kona Jóhannesar Hannibal Schaldemose (frá Nýlendu á Höfðaströnd), 66 ára.

MARZ 1904.

3. Guðrún Jóhannesdóttir kona Páls bónda Kjærnested, við Mani toba-vatn, 41 ára.
5. Rafn Jónsson bóndi á Gimli, einn af elstu landnámsmönnum í Nýja Íslandi (frá Kirkjuhvammi í Húnav.s.).
17. Sigríður, dóttir Sigurðar bónda Vídals í Breiðuvík í Nýja Ísl., 15 ára.

18. Oddný Sigurðardóttir í Winnipeg (ættuð úr Borgarfirði), 24 ára.
24. Sigurður Kristjánsson (Sam. Christie) í Winnipeg 25 ára.
24. Guðmundur Þórðarson bóndi í Þingvallanýlendu. Assa.
24. Kjartan Ögmundsson við Nome í Alaska (ættaður úr Hrunamannahreppi í Árnessýslu), ungur maður.
27. Björg Bjarnardóttir, kona Björns A. Blöndals í Winnipeg (dóttir Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði), 42 ára.

APRÍL 1904.

2. Magnús Þorsteinsson Strand í Minneota (bjó síðast á Þorvaldsstöðum á Langanesströnd), 72 ára.
2. Snorri Jónsson Reykjalín í Winnipeg (sonur síra Jóns Reykjalins sem prestur var á Þönglabakka í Þingeyjars.), 67 ára.
6. Arnbjörg Sigfúsdóttir kona Hermanns Jósepssonar í Minneota (frá Hauksstöðum í Vopnafirði), 32 ára.
11. Jón Dagsson bóndi í Geysis-bygð í Nýja Íslandi (úr Eyjafirði), 76 ára.
16. Sigurbjörg Stefánsdóttir kona Jóns Jónssonar frá Mjóadal í Bárðardal við Gardar N. D., (dóttir Stefáns Guðmundssonar sem var á Kroppi í Eyjafirði) 82 ára.
17. Sigríður Jónsdóttir (Jónssonar frá Elliðavatni) ekkja eftir norskan mann Christensen í Chicago, 44 ára.
28. Helga María lafsdóttir í Winnipeg (frá Haga í Húnavatnssýslu) 52 ára.
30. Jón Jónsson Saddler í Winnipeg, 46 ára.
Guðrún Jónsdóttir Rafnssonar (frá Felli í Vopnafirði), gift amerískum manni í Minnesota.

MAÍ 1904.

6. Páll Jónsson í Tantallon-bygðinni í Assiniboia (flutti hingað frá Kolmúla í Fáskrúðsfirði 1876).
13. Sigfinnur Þórðarson að heimili móður sinnar Guðrúnar Ólafsdóttir í Pembina county N. D. (af Seyðisfirði), 20 ára.
13. Hallfríður Hrútfjörð hjá foreldrum sínum við Milton, N. D., 28 ára.
14. Ólafur Björnsson, trésmiður í Winnipeg, (af Seyðisfirði).
18. Olafur Kristján, sonur Magnúsar Gíslasonar og Guðbjargar Jónsdóttir í Spanish Fork, Utah (úr Vestm,eyjum), 17 ára.
18. Þórður Þórðarson bóndi í Þingvallanýlendu, Assa, (ættaður úr Vopnafirði) 74 ára.
19. Davíð Bjarnason hjá syni sínum Bjarna D. Westmann kaupmanni í Churchbridge, Assa., frá Fornahvammi i Húnav,s), 82 ára.
21. Helga Magnúsdóttir, kona D. Daníelssonar bónda við Mountain, N. D. (ættuð af Langanesi), 57 ára.
22. Haraldur Sigurðsson prentari, vestur á Kyrrahafsströnd, sonur Sig. Sigurðssonar sem þar býr (af Akureyri).
24. A. Alexander í Grafton, N D. (af Langanesströnd), 75 ára.
25. Elín Magnúsdóttir (Melsteð), við Gardar, N,D. (ættuð úr Reykjadal) var tvígift, fyrri maður hennar var Magnús Grfmsson Ein-

arssonar frá Krossi í Ljósavatnsskarði, d. 1871, en síðari maður Ólafur Jónsson, d. 1891. (Hún flutti hingað vestur ekkja með 6 börnum sínum 1876), 71 ára.

28. Guðrún Málmfríður dóttir Guðmundar bónda Einarssonar við Hensel, N. D., 18 ára.

31. Guðmundur Víum til heimilis við Akrapóst-hús í N.D.

Guðmundur Guðmundsson Isleífssonar (frá Stóru Háeyri), til heimilis vestur á Kyrrahafsströnd.

JÚNÍ 1904.

4. Þorbjörg Jónasdóttir, kona Ívars Jónassonar í Winnipeg (frá Keldudal í Skagafirði), 34 ára.

5. Friðrika, dóttir Jóns bónda Abrahamssonar við Sinclair pósthús í Man. (úr Eyjafirði), 26 ára.

6. Guðmundur Bjarnason bóndi í Árnessbygð í N. Íslandi (ættaður úr Skagafirði), 45 ára.

8. Jóhannes Sveinsson Holm til heimilis hjá syni sínum Gunnari í Marietta, Wash. (bjó lengi á Kóreksstöðum í Hjaltastaðaþinghá og á Hjartarstöðum í Eiðaþinghá), 74 ára.

10. Björg Bjarnadóttir, kona Jóns Árnasonar í Ballard, Wash. (systir síra Þorkels Bjarnasonar sem var á Reynivöllum), 55 ára.

12. Ingibjörg Jónasdóttir á Washington eynni í Wis., gift norskum manni, Albertsen, fósturdóttir Bárðar Nikulássonar og konu hans Halldóru Oddsdóttir, sem þar eiga heima, 38 ára.

24. Elín Sigríður Kristjánsdóttir, til heimilis hjá syni sínum Kristjáni í Winnipeg, ekkja Jörgen Jóhanns Kröger, (sem síðast bjó á Nípá í Köldukinn), 64 ára.

24. Kristín Erlendsdóttir (Pálssonar, verzlunarstj. á Grafarós), kona B. B. Hanson, lyfsala á Edinburg, N.D., 27 ára.

28. Margrét Sigurbjörg Sigurgeirsdóttir Einarssonar í Álftavatnsnýlendu, 23 ára.

JÚLÍ 1904.

4. Hólmfríður Einarsdóttir (Stefánssonar prests Schevings), kona Björns Halldórssonar (frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði), 72 ára.

5. Indriði Indriðason í Winnipeg (frá Ytri Ey í Húnavatnss.), 47 ára.

7. Ragnhildur Andrésdóttir kona Helga Þórðarsonar í Winnipeg.

12. Guðbjörg Árnadóttir, kona Matúsalems Sigfússonar í Winnipeg (dóttir Árna Árnasonar er lengi bjó í Skógum í Axarfirði), 35 ára.

12. Jónas Jónasson, við Merl-pósthús í N. Dak. (bjó lengst af á Krossi í Ljósavatnsskarði), 84 ára.

14. Jón Þorsteinsson í Pembina (bjó síðast á Kirkjubóli í Norðfirði), 68 ára.

15. Ragnheiður Þorláksdóttir í Selkirk, Man., 74 ára.

18. Jóhanna, dóttir Guðmundar bónda Marteinssonar í Fljótsbygð í N. Íslandi (úr Breiðdal í N. Múlas.), 37 ára.

28. Einar Einarsson Ólafssonar við Svold-pósthús, í N. Dakota, 74 ára (ættaður úr Miðfirði); 8. s. m. dó kona hans Ragnheiður Ólafsdóttir, 73 ára (ættuð úr Eyjafirði), bjuggu síðast á Höfðastöðum í Stafholtstungum.

29. Birgittu Jósepsdóttir kona Guttorms bónda Þorsteinssonar að Húsavik í Víðinesbygð í N. Ísl. (frá Krossavík í Vopnafirði), 44 ára.

ÁGÚST 1904.

2. Ingiríður Kristín, dóttir Björns Runólfssonar í Spanish Fork, Utah, 24 ára.
3. Snæbjörn Jónsson bóndi í Álftavatnsnýlendu (úr Breiðafirði), 53 ára.
4. Anna Benediktsdóttir kona Jóns Kristjánssonar bónda við Ely pósthús, N. Dak. (ættuð úr Isafjarðars.), 44 ára.
4. Einar Markússon bóndi við Hnausa pósthús í N. Ísl. (ættaður úr Þingeyjarsýslu), 47 ára.
9. Jón Sigvaldason í Minneota (frá Búastöðum í Vopnafirði), 50 ára.
14. Einar Guðbert, sonur Páls Nordals í Portage la Prairíe, Man.
18. Arnþrúður Vigfúsdóttir Vopni, í Winnipeg, ekkja Jóns Jónssonar (bjuggu lengi á Ljótsstöðum í Vopnafirði), 62 ára.
20. Guðjón Tómasson Péturssonar í Ballard, Wash., (af Vopnafirði), 43 ára.
22. Jón Ólafsson trésmiður í Brandon (af Ísafirði).
24. Helgi Jóhannesson bóndi í Gardar-bygð, N. D., 50 ára.
31. Benjamín Einarsson bóndi í Grunnavatnsnýlendu.

SEPTEMBER 1904.

5. Ingibjörg Friðriksdóttir (prófasts á Stað á Reykjanesi), hjá bróður sínum H. F. Reykjalín við Mountain, 81 ára.
8. Bergþóra Jóhannsdóttir, kona Guðmundar Jakobssonar á Gimli.
10. Margrét Jónsdóttir, kona Jóhanns Björnssonar póstafgreiðslumanns á Tindastoll-pósthúsi í Alberta (ættuð úr Skagafirði af hinni svonefndu Fjallsætt), 52 ára.
12. Ingibjörg Sigurðardóttir hjá syni sínum Árna Pálssyni bónda við Markerville, Alberta, ekkja Páls Árnasonar dannebrogsmanns (úr Skagafjarðarsýslu), 77 ára.
13. Ingvar Bjarni Búason í Winnipeg, sonur Búa Jónssonar bónda við Winnipegosis (úr Ísafjarðarsýslu), 31 ára.
18. Steinunn Jónsdóttir, kona Runólfs Sigurðssonar í Winnipeg (dóttir Jóns Bjarnasonar og Guðnýjar Benediktsdóttir í Odda á Mýrum í Hornafirði?), 30 ára.
26. Sigríður Kristjánsdóttir kona Kristjáns bónda Kjærnesteds í Víðinesbygð í N. Íslandi, 76 ára.
27. Guðrún Sigurðardóttir Ólafssonar (frá Illhugastöðum í Laxárdal), gift enskum manni, Hart, í Morris, Man., 26 ára.
28. Aðalbjörg Jónsdóttir í Gardar-bygð, kona Guðmundar Sigurðssonar (frá Skálum á Langanesi). 81 árs.

OKTÓBER 1904.

4. Ólafur bóndi Árnason við Hensel, N. Dak. (flutti hingað 1876 frá Ekkjufellsseli í Fellum í N.-Múlas.), 71 ára.

6. Guðlaug Jóhannesdóttir í Selkirk, Man. (ættuð af Langanesi), ekkja Vigfúsar Halldórssonar úr sömu sveit.
11. Jakob Líndal í Ballard, Wash. (ættaður úr Miðfirði í Húnav.s.).
13. Magnea Sæmundsson í Winnipeg (úr Árnessýslu), 26 ára.
16. Steinunn kona Ármanns Þórðarsonar bónda í Álftavatnsnýlendu, 31 ára.
20. Jón Jafetsson Reynholt í Pembina (ættaður úr Eyjafirði), 72 ára.
23. Rakel Kröger í W innipg, dótti Jörgen Jóhanns Kröger, sem hér lézt fyrir nokkurum árumer, 29 ára.
27. Guðrún Halldóra í Geysis-bygð í N. Íslandi, 62 ára.
27, Björn Pálsson í Winnipeg, 28 ára.
30. Lovísa Benedikta Pétursdóttir í Pembina, 23 ára.

NÓVEMBER 1904.

2. Steinunn Daðadóttir, kona Sigurbjörns Jóhannssonar bónda í Árdals-bygð í N. Íslandi (úr Laxárdal í Dalasýslu), 25 ára.
5. Jórunn Jónsdóttir, kona Páls Gunnarssonar í Minneapolis.
7. Ólafur Sófus Aðaljónsson Goodmann, til heimilis hjá móður sinni í Winnipegosis, 24 ára.
9. Bergþóra Sigurðardóttir Randverssonar í Víðines-bygð í N. Ísl. ekkja Jóns Jóhannssonar (frá Torfufelli í Eyjafirði), 80 ára.
13. Gunnlaugur Einar Gunnlaugsson, Brandon, Man. (ættaður úr Skagafirði), 54 ára.
16. Margrét Eiríksdóttir kona Júlíusar J. Sigurðssonar við Íslendingafljót (ættuð af Langanesi), 29 ára.
29. Jón Jónsson Hoff í Watertown, S. Dakota (fæddur í Viðvík í Skeggjastaðahreppi í N. Múlas., flutti hingað vestur 1874), 57 ára.

DESEMBER 1904.

7. Jónína Jónasdóttir í Winnipeg, ekkja Ólafs Eiríkssonar sem hér dó fyrir nokkrum árum.
10. Guðrún Jónsdóttir kona Þorsteins Jóhannessonar í N. Dakota (ættuð úr Þingeyjars.), 67 ára.
14. Guðrún Árnadóttir í Winnipeg (ættuð úr Þingeyjars.).
17. Jón Einarsson Snædal að Milton, N. Dak. (flutti hingað vestur 1876 úr Suður-Múlas.), 63 ára.
18. Rannveig Jóhannesdóttir, kona Þorgeirs Jónssonar í Calgary, Alta (úr Árnessýslu), 27 ára.
19. Sigurjón Guðmundur Vigfússon Halldórssonar (frá Ytri Brekkum á Langanesi), 33 ára.
28. Jónas Oliver, sonur Jóns Ólafssonar, póstafgreiðslumanns að Brú í Argyle-bygð, 37 ára.

Jóhann, sonur Jensar Sigurðssonar bónda í Lincon county í Minnesota, 27 ára.

———o———

# Innihald Almanaksins 1905.



# Canada-Norvesturlandid.

---

REGLUR VIÐ LANDTÖKU.

Af öllum sectiouum með jafnri tölu, sem tilheyra sambandsstjórninni, í Manitoba og Norðvesturlandinu, nema 8 og 26, geta fjölskylduhöfuð og karlmenn 18 ára gamlir eða eldri, ekið sér 160 ekrur fyrir heimilisréttarland, það er að segja, sé landið ekki áður tekið, eða sett til síðu af stjórninni til viðartekju eða einhvers annars,

INNRITUN.

Menn mega skrifa sig fyrir landinu á þeirri landskrifstofu, sem næst liggur landinu, sem tekið er. Með leyfi innanríkisráðherrans, eða innflutninga-umboðsmannsins í Winnipeg, geta menn gefið öðrum umboð til þess að skrifa sig fyrir landi, Innritunargjaldið er $10.

HEIMILISRÉTTAR-SKYLDUR.

Samkvæmt núgildandi lögum ^ erða landnemar að uppfylla heimilisréttar-skyldur sínar á einhvern af þeim vegum, sem fram eru teknir í eftirfylgjandi töluliðum, nefnilega:

[1] Að búa á landinu og yrkja það að minsta kosti í sex mánuði á hverju ári í þrjú ár.

[2] Ef faðir (eða móðir, ef faðirinn er látinn) einhverrar persónu, sem hefir rétt til að skrifa sig fyrir heimilisréttarlandi, býr á bújörð í nágrenni við landið, sem þvílík persóna hefir skrifað sig fyrir sem heimilisréttarlandi, þá getur persónan fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á landinu snertir áður en afsalsbréf er veitt fyrir því, á þann hátt að hafa heimili hjá föður sínum eða móður.

[3] Ef landnemi hefir fengið afsalsbréf fyrir fyrri heimilisréttar-bújörð sinni, eða skírteini fyrir að afsalsbréfið verði gefið út, er sé undirritað í samræmi við fyrirmæli Domioinn landlaganna, og hefir skrifað sig fyrir síðari heimilisréttar-bújörð, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er snertir ábúð á landinu (síðari heimilisréttar-bújörðinni) áður en afsalsbréf sé gefið út, á þann hátt að búa á fyrri heimilisréttar-bújörðinni, ef síðari heimilisréttar-jörðin er í nánd við fyrri heimilisréttar-jörðina.

[4] Ef landneminn býr að að staðaldri á bújörð sem hann á (hefir keypt, tekið í erfðir o, s. frv.) í nánd við heimilisréttarland það, er hann hefir skrifað sig fyrir, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á heimilisréttar-jörðinni snertir, á þann hátt að búa á téðri eignarjörð sinni (keyptu landi o. s. frv.).

BEIÐNI UM EIGNARBRÉF

ætti að vera gerð strax eftir að 3 árin eru liðin, annaðhvort hjá næsta umboðsmanni eða hjá INSPECTOR sem sendur er til þess að skoða hvað unnið hefir verið á landinu. Sex mánuðum áður verður maður þó að hafa kunngert Dominion landa umboðsmanninum í Ottawa það, að hann ætli sér að biðja um eignarréttinn.

LEIÐBEININGAR,

Nýkomnir innflytjendur fá á innflytjenda-skrifstofunui í Winnipeg, og á öllum Dominion landa skrifstofum innan Manitoba og Norðvesturlandsins, leiðbeiningar um það hvar lönd er ótekin, og allir, sem á þessum skrifstofum vinna, veita innflytjendum, kostnaðarlaust, leiðbeiningar og hjálp til þess að ná í lönd sem þeim eru geðfeld; ennfremur allar upplýsingar viðvíkjandi timbur, kola og náma lögum. Allar slíkar reglugjörðir geta þeir fengið þar gefins, einnig geta menn fengið reglugjörðina um stjórnarlönd innan járnbrautarbeltisins í British Columbia, með því að snúa sér bréflega til ritara innanríkisdeildarinnar í Ottawa, innflytjenda-umboðsmannsins í Winnipeg, eða til einhverra af Dominion landa umboðsmönnum í Manitoba eða Norðvesturlandinu.

